LIFI MARXISMINN-LENÍNISMINN-HUGSUN MAÓS TSETUNGS!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistasamtakanna marxistanna-lenínistanna 4. tbl. 1972

# Stofnþing KSML

## BARÁTTA OKKAR ER STÉTT GEGN STÉTT







Stofþing Kommúnistasamtakanna marxistanna-lenínistanna var haldið 5.-7. ágúst s.l., en þá höfðu laustengdir kommúnískir námshópar starfað hér í eitt ár. Stofnþingið er þannig beint framhald af þeirri pólitík, sem grundvallarnámshóparnir skópu. Það skipulagsform, sem námshóparnir bjuggu við grundvallaðist á því, að enginn, eða aðeins fáeinir, höfðu lokið grundvallarnámsstarfi. Þeir, sem höfðu lokið grundvallarnáminu, mynduðu kjarna hreyfingarinnar, er leiddi allt starfið beinlínis með það fyrir augum að mynda skipulögð samtök.

Það varð því fljótlega ljóst með örum vexti hreyfingarinnar, að móthverfan milli framhaldsnáms og grundvallarnáms gat ekki haldið áfram að þróast á byltingarsinnaðan hátt nema framhaldsnámið yrði leiðandi þátturinn í móthverfunni.

Stofnþingið leysti þessa móthverfu, þegar lagður var skipulagsgrundvöllur samtakanna með sellur sem grunneiningar. Í sellunum verður framhaldsnámið unnið og yfirleitt öll pólitísk og skipulagsleg verkefni fyrir hvern vinnustað, hverfi og skóla. Með sellur sem grunneiningar er einnig lagður grunnurinn að lýðræðislega miðstjórnarvaldinu sem yfirstjórn samtakanna. Þar er sameiginlegu átaki allra sellanna stjórnað, pólitískt sem skipulagslega. Þetta er eina skipulagsformið, sem getur leitt námsstarfið fram á við og gert framhaldsnámið leiðandi þáttinn, því aðeins með framhaldsnámið sem leiðandi þátt í ferlinu er okkur kleift að færast nær sameiginlegu takmarki námshópanna, sem er kommúnistaflokkur.

Næsta verkefni var því að festa lýðræðislega miðstjórnarvaldið með því að kjósa miðstjórn, sem er sameiginleg stjórn allra sellanna.
Sú stefna, sem þingið markar, táknar því raunverulega eðlisbreytingu frá skipulagsformi námshópanna og er meðvitað skref fram á við í flokksuppbyggingunni.

SÓKN GEGN HENTISTEFNUNNI.

Með stofnun KSML hefur merki öreigastéttarinnar verið hafið á loft á Íslandi að nýju.
Frá því KFÍ (Kommúnistaflokkur Íslands) var lagður niður 1938 hefur stéttsvikurunum í "vinstri" flokkunum tekizt að leiða öreigana inn í algjört myrkur þekkingarleysis um íslenzka auðvaldsþjóðfélagið og stéttabaráttuna; baráttuna milli þeirrar stéttar, sem rotnar með degi hverjum og berst vonlausri baráttu við að halda afturhaldssömu alræði sínu (alræði borgaranna) og þeirrar stéttar, sem vex afl og styrkur með hverjum degi samhliða þróun framleiðslutækjanna og berst framsýnni baráttu fyrir afnámi arðráns og kúgunar, íslenzkrar verkalýðsstéttar (öreigastéttar).

Þess vegna er það eitt höfuðverkefni KSML að afhjúpa höfuðvígi stéttsvikaranna : Alþýðubandalagið með vísindalegri stéttagreiningu á íslenzka

FRAMHALD A BLS.2

# Styðjum þjóðfrelsibaráttuna í Palestínu!

Aðgerð Svarta Septembers á Olympíuleikunum tjáir þá ógn og kúgun, sem ríkir í heiminum í dag. Borgaralegu fjölmiðlarnir um allan heim fengu æðisgengna útrás við að fordæma hryðjuverk hreyfingarinnar og dagana eftir aðgerðina hurfu nær allar aðrar fréttir í skuggann fyrir takmarkalausum fordæmingum á aðgerðinni. Tárakirtlar borgaranna stóðu þurrir á fyrsta degi og afturhaldsöflin sáu sér leik á borði. En versta afturhaldið átti engin tár að fella. Golda Meir og ísraelska ríkisstjórnin álitu það mikilvægara, að Ísraelsmennirnir yrðu drepnir en að leita samninga við skæruliðana.



Skinhelgi borgaranna er takmarkalaus. Þrátt fyrir að Bandaríkin reki stríð í Víet Nam, þar sem þeir myrða þúsundir og aftur þúsundir barna, kvenna og gamalmenna, er þeim bara klappað lof í lófa á Olympíuleikunum.
Sama má segja um herveldi Breta á Írlandi, morð og pyntingar spönsku fasistastjórnarinnar á verkalýðnum, sem mótmælir kúguninni og um valdbeitingu þýzku lögreglunnar gegn þeim, sem mótmæla heimsvaldastefnunni.
Að ótöldum fjöldamorðum Ísraela á Palestínubúum, sem hefur verið daglegt brauð allt frá 1948.

Atburðurinn sannaði hversu ómögulegt það er að halda Olympíuleikunum utan við stéttabaráttuna í heiminum í dag. Atburðurinn hefur einnig orðið upphaf að grimmilegri áróðursherferð úr herbúðum afturhaldsins.

Barátta Palestínanna beinist gegn heimsvaldastefnunni og síoníska ríkinu Ísrael og er barátta fyrir sjálfstæði Palestínu. En reynslan frá frelsisbaráttunni í Palestínu hefur sýnt, að höfuðverkefni frelsishreyfingarinnar er að berjast gegn arabísku afturhaldsöflunum og skapa traustan grundvöll fyrir frelsishreyfinguna til að hún geti staðizt hina löngu styrjöld, sem framundan er gegn Ísrael og síonismanum.

KSML styðja heilshugar baráttu palestínsku alþýðunnar fyrir þjóðfrelsi, en áskilja sér réttinn til að gagnrýna rangar aðgerðir frelsishreyfingarinnar. Aðgerðin, sem Svarti September framkvæmdi í München, er ekki framsýn aðgerð, sem færir baráttu palestínsku frelsisaflanna fram á við.

Svarti September er nýstofnuð hreyfing - um það bil eins árs gömul. Hreyfingin er leyniarmur Al Fatah og var komið á fót í því skyni að vega upp á móti því aðgerðarleysi, sem Al Fatah hafði hafnað í eftir "svarta september" í Jórdaníu 1970, er herferð Hússeins konungs gegn skæruliðahreyfingunni skaðaði Fatah mjög alvarlega. Svarti September er hreinræktuð hryðjuverkahreyfing, sem framvkæmir aðgerðir sínar algjörlega einangrað frá öllu pólitísku grundvallarstarfi og þar með palestínsku alþýðunni og án nokkurs tillits til ástands palestínsku frelsisbaráttunnar.

Einstaklingshyggja Svarta September hreyfingarinnar og ofurtrú hennar á hetjudáðum eru andstæð sósíalismanum og aðeins til skaða fyrir frelsisbaráttu alþýðunnar. Við kommúnistar erum alls ekki andvígir hryðjuverkum að öllu leyti. En við teljum, að hryðjuverk geti þá aðeins verið byltingunni til framdráttar, er verkalýðsstéttin hefur tekið á sig form fjöldahreyfingar og þegar öreigarnir eru reiðubúnir til að hefja vopnaða baráttu.

Aðgerð Svarta September í München einangrar samtökin ennþá meira frá öreigum í Vestur-Evrópu og undirokuðu þjóðunum um leið og hún gefur síonistunum og arabíska afturhaldinu tylliástæðu til að fullkomna múgmorð sín, sem Hússein konungur hóf í Jórdaníu 1970. Síðan þá hefur fjöldahreyfingin ekki vaxið - frelsishreyfingin hefur í dag enga fjöldahreyfingu til að byggja á, þegar afturhaldið gerir nýja árás. Þar að auki gefur aðgerðin síonistunum tækifæri til að skapa sameiningu um stéttasamvinnu, með því að gera hættuna frá Palestínunum að hættu, er ógni sérhverjum Ísraela.

Ísraelsku öreigarnir eru mikilvægir stéttfrændur Palestínanna og þess vegna hefur sérhver aðgerð, sem ýtir undir stéttasamvinnuna í Ísrael, neikvæðar afleiðingar.

Münchenaðgerðin tjáir þolinmæðiskort og örvílnan fulltrúa alþýðunnar, sem hafa í meira en 25 ár lifað sem flóttamenn og landrekur. Aðgerðin þjónaði ekki á nokkurn hátt baráttu alþýðunnar. Hún varpaði aðeins skýrara ljósi á nauðsyn skipulagningar alþýðunnar í baráttunni gegn vígi heimsvaldasinna í sjálfum Arabalöndunum og baráttunnar fyrir frjálsri Palestínu.

Aðgerðin varpaði einnig skýru ljósi á nauðsyn þess, að við gefum palestínsku alþýðunni stuðning okkar sem og öllum kúguðum og undirokuðum þjóðum.

SJÁ GREIN Á BAKSÍÐU

## RAUÐI FÁNINN

Samtökin verða auk Stéttabaráttunnar að eiga sér fræðilegt rit, sem fyrst og fremst þjónar þeim tilgangi að skóla meðlimi þeirra. Aðaluppistaða þess yrði að gera vísindalega stéttaskilgreiningu og sýna fram á afstöðu marxista-leninista til ýmissa mikilvægra mála. Ritinu hefur verið valið nafnið "Rauði fáninn". Fyrsta tölublað þess mun birta ályktanir fyrsta þings KSML, og kemur út í miðjum nóvember. Verð kr. 50,oo.

# Stórsigrar Þjóðfrelsis hersins síðustu mánuði

Þegar Víet Namstríðið braust út útskýrði borgarapressan það sem "innrás" Norður-Víet Nam og Kína. Þessar lygar breiddu USA-heimsvaldasinnarnir út til að réttlæta stríðsbrölt sitt í Víet Nam. Falsanir borgarapressunnar hafa sjaldan verið jafn rækilega afhjúpaðar eins og þegar raunverulegar orsakir stríðsins í Víet Nam eru kannaðar. Lygar eins og þær að þetta séu aðeins "mistök" forseta Bandaríkjanna höfum við heyrt áður. T.d. er því haldið fram í skólabókum, að síðari heimsstyrjöldin hafi brotizt út vegna geðveiki Hitlers og takmarkalauss gyðingahaturs eins og það er látið heita. Þessar "skýringar" borgarastéttarinnar eru tilraun til að hylma yfir raunverulegan tilgang stríðsins. Bandarísku heimsvaldasinnarnir eru ekki í stríði í Víet Nam vegna "mistaka", þeir komu þangað í upphafi til að halda auðlindum Víet Nam, olíulindum og námum, fyrir bandarísku borgarastéttina. Þannig er stríðið framhald af pólitíkinni. En megintilgangur stríðsreksturs Bandaríkjanna í Víet Nam í dag er ekki sá sami og í upphafi, heldur sá að vinna sigur á byltingarsinnuðu fordæmi Víet Nam.
Sigur yfir víetnömsku þjóðinni myndi því þýða stórtap kúguðu þjóðanna gegn heimsvaldastefnunni alls staðar í heiminum. Það yrði einnig til þess að þar yrði herstöð til hernaðarlegra aðgerða gegn Kína, sem er útvörður gegn kapítalísku alræði yfir allan heiminn. Stór hluti amerísku borgarastéttarinnar á fjármagn sitt í hergagnaframleiðslunni og stórgræðir á stríðum,



sem USA á í um allan heim. Það er því þeirra hagur, að stríðið haldi áfram. Þannig sjáum við, að eins lengi og efnahagskerfi borgaranna stendur koma upp heimsvaldasinnuð stríð eins og í Víet Nam aftur og aftur.

FRAMHALD Á BAKSÍÐU

# Stéttabaráttan

Stéttabaráttan 4. tbl. október 1972
Útgefandi: Kommúnistasamtökin m-l
P.O. Box 1357,
Rvk.
Ritstjóri og ábyrgðarmaður:
Hjálmtýr Heiðdal.

# Leiðari:

SAGA KSML.

Upphaf Kommúnistasamtakanna m-l má rekja að nokkru til sendiráðstökunnar í Stokkhólmi 1970, er róttækir námsmenn háðu baráttu gegn kjaraskerðingarsókn íslenzka auðvaldsins, sem hófst 1967. Meginhluti þeirra, sem stóðu að aðgerðinni, stofnuðu vorið 1971 Gautaborgarhópinn, en það er hópur íslenzkra náms- og verkamanna, sem leggur stund á skipulagt nám í marxismanum-lenínismanum-hugsun Maós Tsetungs. Eftir að hópurinn hafði numið helztu grundvallaratriði byltingarsinnuðu fræðikenningarinnar hóf hann undirbúning að því að færa þekkinguna um sögulegt hlutverk öreigastéttarinnar heim til Íslands. Fyrir hvatningu Gautaborgarhópsins í formi "Bréfs til róttækra Íslendinga heima og erlendis", sem jafnframt var fyrsta pólitíska greinargerð hópsins, hófu nokkrir einstaklingar á Íslandi nám í marxismanum-lenínismanum og mynduðu með sér hópa í því skyni. Er hópunum fór fjölgandi mynduðu þeir óformleg samtök og nefndu sig Kommúnistahreyfinguna m-l. Skipulag KHML miðaðist við ástand hópanna, sem allir byggðu á námsstarfi í marxismanum-lenínismanum.

Starf námshópanna færðist fljótt í aukana og í febrúar 1972 hófu þeir útgáfu opinbers málgagns - STÉTTABARÁTTUNNAR, en það var fyrsta stóra skrefið, sem tekið var markvisst til stofnunar kommúnistaflokks á Íslandi að nýju.

Í 1. tbl. Stéttabaráttunnar var lagður hornsteinn pólitísks grundvallar Kommúnistasamtakanna m-l með kenningunni um höfuðmóthverfuna á Íslandi. Þessi fyrstu drög að byltingarsinnaðri stéttaskilgreiningu bentu á, að höfuðmóthverfan í íslenzka auðvaldsþjóðfélaginu væri ekki sú, sem Alþýðubandalagið, Fylkingin og Sósíalistafélagið störfuðu samkvæmt, sem sé að höfuðmóthverfan væri á milli erlends heimsvalds (USA) og hlaupasnata þeirra hér á landi annars vegar og íslenzkrar alþýðu (öreigar, smáborgarar, millihóparnir og þjóðlegir borgarar) hins vegar. KHML taldi höfuðóvininn vera íslenzka borgarastétt; höfuðmóthverfan væri á milli íslenzkrar borgarastéttar annars vegar og íslenzkrar öreigastéttar hins vegar.

Er hóparnir hófu hið byltingarsinnaða námsstarf voru aðstæður á Íslandi þær, að endurbótasinnarnir í Alþýðubandalaginu sátu við og fleipruðu margt og mikið um sósíalisma samtímis sem þeir unnu hverja stund að því að festa auðvaldsskipulagið í sessi. Þeir gátu í skjóli þekkingarskorts meðal öreiganna breitt út stéttasamvinnuhugmyndir sínar í þágu borgarastéttarinnar og þannig slegið á og leitt afvega stéttarvitund verkalýðsins. Síðan Kommúnistaflokkur Íslands leið (1938) hefur ekki verið um að ræða neina skipulagða baráttu á grundvelli sögulegs hlutverks öreigastéttarinnar.

Kommúnistarnir, sem lutu í lægra haldi í baráttunni við hentistefnumennina með Einar Olgeirsson í broddi fylkingar, megnuðu ekki að hefja neitt starf til uppbyggingar samtaka eða flokks til að reisa aftur hinn fallna rauða öreigafána.

Í ljósi þessa settu marxísku-lenínísku námshóparnir fram höfuðverkefni öreigastéttarinnar í dag: byltingarsinnað námsstarf, en það er alger forsenda þess að hægt sé að starfa framsýnt fyrir stéttarhagsmunum verkalýðsins.

Með námi í marxismanum-lenínismanum-hugsun Maós Tsetungs tókst KHML að leiða starfið fram á við og leggja grundvöllinn að stofnun Kommúnistasamtakanna m-l, en markmið KSML er að leiða starfið fram að stofnun kommúnistaflokks og gegna í sívaxandi mæli hlutverki hans.

Í upphafi starfs námshópanna var spurningin hvort hægt yrði að grundvalla kommúnískt starf. Í dag er því þannig farið, að líf námsstarfsins hefur sigrað í fyrstu átökunum við þekkingarleysið og fjötrar borgaralegu hugmyndafræðinnar hafa fengið hvert höggið á fætur öðru á námsfundum og í starfi samtakanna.

Eins og fyrr segir miðaðist skipulag KHML við starf hópanna, þegar þeir voru á stigi grundvallarnámsins. Með vaxandi starfi varð skipulag hreyfingarinnar hemill á þróun þess. Til þess að geta þróað starfið fyrir sósíalísku byltinguna varð því nauðsynlegt að draga saman reynsluna af starfinu og undirbúa stofnun samtaka þeirra, sem höfðu lokið grundvallarnámsstarfinu og voru byrjaðir að beita þeirri þekkingu við íslenzkar séraðstæður.

STOFNÞING KSML - BYLTINGARSINNAÐ SKREF.

Stofnun KSML er þannig beint framhald af starfi KHML. Með stofnun KSML tóku hóparnir, sem mynduðu KHML, byltingarsinnað skref fram á við og gerðu með sér skipulögð samtök.

Mikilvægustu atriðin varðandi stofnþingið eru pólitískur grundvöllur samtakanna, sem lagður var fram og samtökin starfa samkvæmt, og hin skipulagslega hlið, þar sem nú er um að ræða miðstjórn og fast skipulag samtakanna í sellur, sem eru grunneiningar alls starfsins.

Höfuðverkefni KSML er námsstarf í marxismanum-lenínismanum-hugsun Maós Tsetungs. Til þess að námsstarfið verði ekki lífvana lærdómur án tengsla við baráttu öreigastéttarinnar er KSML nauðsynlegt að dýpka þekkinguna í almennum atriðum vísindalega sósíalismans og baráttureynslu öreiganna, ásamt róttækri og markvissri rannsókn á séraðstæðum íslenzka auðvaldsþjóðfélagsins.

Með þinginu hefur verið lagður hornsteinninn að stofnun kommúnistaflokks á Íslandi að nýju eftir tæpra fjörutíu ára hlé á byltingarsinnaðri baráttu öreigastéttarinnar undir leiðsögn framvarðar, sem hefur megnað að leiða baráttuna inn á framsýnar brautir, en ekki látið sér nægja að berjast fyrir dægurkröfum einum saman. Á þessum árum hefur íslenzka öreigastéttin fallið í hendur endurbótasinnum, sem hafa alla tíð gengið erinda borgarastéttarinnar með því að leiða verkalýðinn eftir glapstigum þingræðisins í hinu borgaralega þjóðfélagi, þar sem hugmyndafræðileg yfirtök borgarastéttarinnar eru algjör.

STÉTTABARÁTTAN - BYLTINGARSINNAÐ MÁLGAGN.

Daglega ryðja fjölmiðlar borgarastéttarinnar yfir verkalýðsstéttina gífurlegu magni af "fréttum" og frásögnum, sem allar eiga það sammerkt að túlka stéttarhagsmuni borgaranna. Verkakarl eða verkakona geta ekki opnað blað eða kveikt á útvarpstæki, án þess að á þeim dynji áróður borgarastéttarinnar um "sameiginlega hagsmuni allra Íslendinga" í einu máli eða öðru, allt er gert til að svæfa stéttarvitund öreiganna.

Í baráttunni fyrir uppbyggingu kommúnistaflokks verður KSML að vinna skipulega og þrotlaust að þróun áróðursstarfsins. Hlutverk þess er að vekja og þróa stéttvísi öreigastéttarinnar til þess að mögulegt sé að skipuleggja hana til baráttu fyrir framtíðarhagsmunum sínum: kollvörpun auðvaldsins í vopnaðri byltingu og uppbygging alræðis öreiganna, þar sem borgarastéttin verður svipt valdaaðstöðu sinni, ríkisvald hennar molað og verkalýðurinn fer með völd í ríki verkalýðsins.

Sterkasta áróðursvopn okkar í dag er Stéttabaráttan. Til þess að brýna það vopn verður næsta skrefið að auka útgáfutíðni blaðsins. Á næsta ári er stefnt að því, að blaðið komi út á mánaðarfresti í stað tveggja eins og nú. Reglubundin útgáfa blaðsins veitir áróðursstarfi KSML meiri höggþunga en áður. Aukin útgáfutíðni gerir okkur kleift að taka enn frekari þátt í stéttabaráttunni og upplýsa verkalýðinn umhagsmuni hans í hverju máli á byltingarsinnaðan hátt og einnig mun allt starf samtakanna styrkjast, þegar félagar samtakanna, hvar sem þeir eru, geta tileinkað sér reynslu annarra í starfinu.

Stéttabaráttan þjónar í dag höfuðverkefni öreigastéttarinnar, hinu byltingarsinnaða námsstarfi. Það verður að reka áróður fyrir námsstarfinu meðal öreiganna og stéttfrænda þeirra, benda á, að það er aðeins með marxismann-lenínismann að vopni, sem öreigarnir geta sótt fram í stéttabaráttunni. Blaðið verður einnig að þjóna námsstarfi samtakanna, þ.e. þeirra, sem þegar hafa lokið grundvallarnámi og hafa tekið að beita þeirri almennu þekkingu við íslenzkar séraðstæður. Þessu hlutverki þjónar blaðið með því að skrifa greinar, sem bæta og auka þekkingu félaganna á einstökum atburðum stéttabaráttunnar og birta greinar eftir marxista-lenínista frá ýmsum tímum baráttunnar.

Í samþykkt stofnþings KSML um áróðursmálin segir: "Stéttabaráttan er málgagn samtakanna og ber að færa út pólitíska línu þeirra. Hún er sameiginlegt áróðurstæki þeirra og skipuleggjandi. Stéttabaráttan er helzta tækið til að inna það verkefni af höndum að sameina sósíalismann og verkalýðinn. Í reynd þýðir þetta að sýna fram á tilveru allra stétta og hópa í þjóðfélaginu, raunverulega hagsmuni þeirra sem stétta, innbyrðis afstöðu þeirra til framleiðslunnar og ríkisbáknsins. Til þess að Stéttabaráttan geti orðið alhliða og lifandi áróðurstæki verður hún sífellt að kynna pólitíska og efnahagslega misbresti hins rotnandi kapítalíska kerfis, innri móthverfur þess og benda á nauðsyn nýs samfélags, hins sósíalíska, þar sem verkalýðurinn hefur með alræði öreiganna orðið hin ráðandi stétt."

Það er hlutverk Stéttabaráttunnar að fletta ofan af þeim "sósíalistum", sem veifa um sig róttækum slagorðum og þykjast vinna að falli auðvaldsskipulagsins. Þannig verður blaðið að benda á og sýna fram á, að Alþýðubandalagið er brúarsporður borgaranna inn í raðir verkalýðsins, þannig verður blaðið að benda á og sýna fram á, að "starfsemi" Fylkingarinnar er ekkert annað en orðagjálfur.

Blaðið verður að vinna gegn áhrifum smáborgaralegu sósíalistanna á verkalýðsæskuna og sanna henni, að það er aðeins hægt að nýta og virkja stéttarhatur hennar á réttan hátt í skipulögðu starfi fyrir sósíalísku byltinguna. Dagdraumar Fylkingarforkólfanna eru ekki spjót gegn auðvaldinu, þeir geta aðeins leitt öreigaæskuna inn á brautir, sem eru algjörlega meinlausar fyrir borgarana.

Fyrsta eintak Stéttabaráttunnar kom út í 1000 eintökum. Síðan hefur upplagið margfaldast og viðtökurnar hafa verið mjög góðar. Ungir og gamlir hafa fagnað því að sjá á götum Reykjavíkur kommúnískt blað. Blaðið hefur nú náð til fleiri staða og skipulögð sala er hafin í kaupstöðum úti á landi, þar sem félagar og stuðningsmenn eru starfandi.
Þannig, með ósérhlífnu og þrotlausu starfi, mun áróðurinn fyrir sögulegu hlutverki öreigastéttarinnar, sósíalísku byltingunni, ná til æ stærri hluta öreigastéttarinnar og fleiri og fleiri munu virkjaðir til starfa.

VERKEFNI, SEM STOFNÞINGIÐ SETUR.

Mikilvægasta verkefni KSML eftir þingið er að festa pólitíska grundvöllinn og skipulagsgrundvöll samtakanna. Það verður ekki gert nema með alhliða rannsókn á íslenzka auðvaldskerfinu og markvissu áróðursstarfi fyrir höfuðverkefninu.

Þannig verða samtökin að marka sér heildarskipulagningu, móta þá taktík, sem beitt er hverju sinni. Það þýðir þó ekki, að markmiðið sé aðeins smásigrar, heldur hljótum við að miða taktísku baráttuna við markmiðið: sósíalísku byltinguna.

Lenín bendir í greininni "Hvar ber að hefjast handa?" á óhjákvæmilega nauðsyn skipulagðra samtaka og pólitískrar áróðursstarfsemi: "Það verk, að skapa baráttusamtök og reka pólitíska áróðursstarfsemi, er skylda, sem inna verður af hendi sérhverja stund, meira að segja í grámyglu hversdagsleikans og á þeim tímum, er 'byltingarandinn' hefur hafnað niður í öldudal. Ekki nóg með það. Einmitt við þessar aðstæður er fyrrnefnt verk sérstaklega nauðsynlegt, því á þeirri stundu, sem upp úr sýður og átökin hefjast, er um seinan að mynda samtök. Þau verða þá að vera til, reiðubúin að auka starfssvið sitt."

Við verðum einnig að skilja mikilvægi starfrænnar skipulagningar jafnt sem pólitískrar. Þannig verða samtökin að herðast og láta skipulagninguna mótast í alhliða baráttu við allar mögulegar aðstæður, svo að þau geti raunverulega staðið undir nafni og hægt sé að segja að starfsgrundvöllurinn standi undir því að kallast taktík.

Gamli kommúnistaflokkurinn er gott dæmi um flokk, sem tókst ekki í baráttunni gegn hentistefnunni að fastmóta alhliða taktík, heldur var hentistefnunni leyft að vera til sem stefnu innan flokksins. Þess vegna er ekki hægt að kalla starfsáætlun hans taktík.

Við verðum alltaf að gera þá kröfu til byltingarsinnaðra samtaka, að þau berjist hatrammlega gegn hentistefnu og láti ekki glepjast af tímabundnum smásigrum, heldur láti þá móta taktíkina fyrir byltinguna. Þess vegna setur stofnþingið okkur það verkefni að smíða hið ósigrandi vopn öreiganna í stéttabaráttunni; kommúnistaflokk, en án hans verður allt tal um sósíalíska byltingu innantómt og einskisvert.

LÆRUM AF STÉTTABARÁTTUNNI OG GERUM ÞEKKINGU OKKAR AÐ VOPNI TIL FLOKKSMYNDUNAR!

LIFI MARXISMINN-LENÍNISMINN-HUGSUN MAÓS TSETUNGS!

# ORÐABÓK KOMMÚNISTANS

Héðan í frá verður Orðabók Kommúnistans fastur liður í blaðinu. Markmið hennar er að gera stutta skilgreiningu á orðum og hugtökum marxismans-leninismans. Þetta er nauðsynlegt, þar sem svo langt er síðan að kommúnískur áróður hefur verið rekinn hér á Íslandi. Í hugum öreiganna hafa orð og hugtök hugmyndafræði öreiganna misst alla stéttarlega afstöðu en í staðinn komið borgaralegar skilgreiningar á merkingu þeirra.

STÉTT:

Undirstaða þjóðfélagsins er framleiðslan. Stétt er sá hópur manna, sem eru í sömu afstöðu til framleiðslunnar. Þannig hefur öllum þjóðfélögum verið skipt í stéttir. Á tíma þrælaskipulagsins voru þrælar annars vegar og þrælahaldarar hins vegar höfuðstéttirnar. Á lénstímabilinu voru það ánauðugir bændur og lénsherrar, og í auðvaldsþjóðfélaginu eru það öreigastétt og borgarastétt sem eru höfuðstéttirnar. Þannig hefur saga mannfélagsins fram að þessu verið saga um stéttabaráttu, baráttu milli kúgaðra og kúgara.

"Í auðvaldsþjóðfélaginu eru aðeins til þrjár stéttir: borgarastétt, smáborgarastétt og öreigastétt" (V.I. Lenin)

BORGARASTÉTT:

Borgarastétt er sú stétt, sem hefur séreignarétt yfir framleiðslutækjunum, framleiðslunni og fjármagninu. Í krafti þessarar séreignar sinnar, arðræna borgararnir öreigastéttina. Þ.e.a.s. "öreiginn skilar í þjónustu borgarans aftur ekki aðeins verðmæti þeirrar vinnu, sem hann fær borgað fyrir, heldur skapar hann að auki gildisauka, sem borgarinn hrifsar til sín" (Engels)

Gildisauki er því vinna, sem engin borgun kemur fyrir

En ekki aðeins rænir borgarastéttin gildisaukanum, heldur ávaxtar hún hann líka og gerir að auðmagni, sem verður síðan tæki til enn frekari arðráns og kúgunar.

ÖREIGASTÉTT:

Öreigastéttin er sú stétt, sem er eignalaus, þ.e.a.s. á engin framleiðslutæki og hefur aðeins eina vöru fala: vinnuafl sitt, sem hún verður að selja til þess að afla sér lífsgagna. Gildi vinnuaflsins ákvarðast af þeirri þjóðfélagslegu nauðsynlegu vinnu, sem þarf til viðhalds og endurnýjunar vinnuaflsins. Það þýðir að það kaup, sem öreiginn fær, ákvarðast af þeim lífsnauðsynjum, sem honum eru nauðsynlegar til að framfleyta sér og fjölskyldu sinni.

SMÁBORGARASTÉTT:

Smáborgarastéttin er sú stétt, sem hvarflar stöðugt milli öreigastéttar og borgarastéttar. Þessi fylginautur hins borgaralega þjóðfélags endurnýjast án afláts. En samkeppnin hrindir sí og æ einstaklingum þessarar stéttar niður í djúp öreigalýðsins. Þeir sjá jafnvel þá stund nálgast, í þróun samþjöppunar og einokunnar, að þeir hverfa að öllu sem sjálfstæður aðili í þjóðfélagi nútímans en verkstjórar og vinnuhjú taki við störfum þeirra í verzlun og framleiðslu. Þess vegna reyna þeir að snúa þróun þjóðfélagsins afturábak til þess þróunarstigs auðvaldsskipulagsins er frjáls samkeppni ríkti. Pólitík þeirra er því afturhaldssöm og útópía í senn.

Framhald af forsíðu...

## STOFNÞING KSML...

auðvaldsþjóðfélaginu og sanna í starfi hver höfuðmóthverfan á Íslandi er og treysta þannig það byltingarsinnaða starf, sem hafið er til myndunar kommúnistaflokks.

STÉTTVÍSIR ÖREIGAR!

Þrem félögum úr Sósíalistafélagi Reykjavíkur (SR) var boðið á stofnþingið til að taka þátt í starfi KHML fyrir stofnun KSML.
Þessum félögum var sérstaklega boðið með hliðsjón af því að þeir hafa ávallt tekið afstöðu með KHML gegn hentistefnubroddunum í hluta forystuliðs SR. Einnig hafa þessir félagar mikla reynslu úr íslenzkri stéttabaráttu, tvö þeirra störfuðu t.d. í Kommúnistaflokki Íslands á þrítugasta áratugnum.

Í tilefni stofnunar baráttusamtaka kommúnista á Íslandi að nýju var einn aldinn baráttufélagi gerður að heiðursfélaga KSML. Þessi félagi er Björn Grímsson. Hann var í KFÍ á tímum byltingarsinnaðrar baráttu öreiganna, þar sem hann barðist með stéttvísum öreigum fyrir sósíalismann. Í dag hefur hann tekið harða afstöðu með framsýnu starfi KSML.
Það er því fyrir fórnfúst starf Björns Grímssonar fyrir öreigastéttina og sósíalismann, að hann er gerður að heiðursfélaga KSML.

Þegar samtökin eru að móta pólitískan og skipulagslegan grundvöll sinn er þeim mjög mikilvægt að gera sér grein fyrir því að þau hljóta að beina áróðri sínum fyrst og fremst til stéttvísustu öreiganna og reyna að vinna þá til fylgis við sig. Þess vegna er það ánægjuefni, að félagar úr SR, sem hafa mikla reynslu úr íslenzkri stéttabaráttu, hafa tekið þátt í starfi KSML og að núna er hafinn fræðileg barátta gegn skíthræddum smáborgurum í forystu SR, sem hræðast ekkert meir en byltingarstarf öreiganna.

Kommúnistasamtökin m-l skora á alla stéttvísa öreiga og stéttfrændur þeirra að hafa samband við samtökin (P.O. Box 1357 eða Hjálmtýr Heiðdal sími 12993) og hefja byltingarsinnað námsstarf og taka þátt í uppbyggingu baráttutækis verkalýðsstéttarinnar, kommúnistaflokksins.



Öllum er í fersku minni er stjórnlaus gróðafíkn útgerðarauðvaldsins næstum gjöreyddi síldarstofnunum hér við land. Í sókn sinni eftir hámarksgróða svífst borgarastéttin einskis

# Borgararnir berjast stjórnlaust um gróðann, en sjómennirnir skapa hann

## FJÖLMIÐILL BORGARA STÉTTARINNAR

Fyrir skömmu sýndi sjónvarpið mynd sem gaf smá innsýn í hryðjuverk bandarísku heimsvaldasinnanna í Indókína. Það er ljóst að heimsvaldasinnarnir verða örvæntingarfyllri með hverjum deginum þegar ósigrandi herir Þjóðfrelsisfylkingarinnar geysast fram og leppherir USA stinga rófunni milli lappanna og flýja eða þá að heilu herfylkin ganga í lið með þjóðfrelsisherjunum.
Myndin gaf nokkra hugmynd um ástand USA heimsvaldastefnunnar sem verður æ aðþrengdari og riðar til falls.

Eiður Guðnason var trúr hlutverki sínu í fjölmiðli borgarastéttarinnar, þegar hann stýrði "umræðuþætti" sem fylgdi myndinni. Til gangur "umræðuþáttarins" var að freista þess að eyðileggja eða draga úr þeim áhrifum sem hún gæti hafa haft á áhorfendur.
Hann hleypti af stað með yfirlýsingu um að "svona mynd mætti einnig gera hinum megin frá". Það sem Eiður var að reyna að ljúga að fólki, var hreinlega það að Víetnamar,

sem heyja grimma styrjöld gegn innrás USA heimsvaldasinnanna, væru jafnir USA hernum í hryðjuverkum gegn sínum eigin landsmönnum. Það sýnir haldleysi orða hans að áróðursvél USA hefur ekki enn tekist að ljúga saman mynd um "hryðjuverk Viet Cong", hversu gjarnan sem þeir vildu.
Lygar heimsvaldasinnanna hafa snúist um "innrás að norðan" og að Víetnamar séu tvær þjóðir. Tilraun USA heimsvaldasinnanna til að búa til "hryðjuverk Viet Cong" í Hue 1968, er lygasaga, sem margoft hefur verið afhjúpuð. Það eina, sem hingað hefur borist "hinum megin frá", er kvikmynd fasistans John Wayne "Grænu húfurnar", en sú mynd vakti hlátur fyrir klaufaleg bellibrögð Jóns Væmna, er hann sýndi Víet Nam á sama hátt og Indíánar eru sýndir í kúrekamyndum, þegar þeir voru að hrjá landnema, sem ruddust inn í lönd þeirra.

Sú "röksemd" gegn Víetnammyndinni, að myndin sé einhliða, fellur um sjálfa sig, sé litið á þá staðreynd, **að um er að ræða einhliða árás USA heimsvaldasinna gegn þjóðum Indókína.**



## Landhelgisöfnunin styrkir ríkisvald borgaranna!

Einn af þeim hlutum, sem alþýðustjórnin hefur nýlega fundið upp á, er landhelgissöfnunin. Markmið þessarar söfnunar er að fá alþýðu landsins til að lýsa yfir stuðningi sínum við landhelgisútfærsluna í verki með því að gefa fjárhæðir upp í nýtt varðskip.
Þetta hefur mistekist hrapalega, gefendur hafa nær eingöngu verið opinberar stofnanir, bankar og útgerðarmenn, en undirtektir almennings verið litlar.
Landhelgisgæzlan og lögreglan eru hluti kúgunartækis borgaranna, sem beitt er gegn öreigunum. Því er það svívirða að fara fram á að öreigarnir borgi í sjóði til að auka og fullkomna hluta kúgunartækis ríkisvaldsins.
Það má geta þess að árið 1923 var landhelgisgæzlunni beitt gegn verkalýð.

Íslenzkir verkamenn og sjómenn verða að gera sér það ljóst að hagsmunir þeirra liggja ekki í því að berjast fyrir auðvaldið. Hagur verkalýðsins verður ætíð fyrir borð borinn í auðvaldsskipulaginu. Það er því ekki meðhagsmuni verkalýðsins fyrir augum, sem útgerðarvaldið heimtar nú af verkalýðnum að halda uppi fyrir sig landhelgisgæzlunni með peningagjöfum til landhelgissöfnunarinnar.
Það eru einkahagsmunir útgerðarauðvaldsins í baráttu þess við brezka útgerðarauðvaldið.

Aðeins eftir kollvörpun auðvaldsins og uppbyggingu sósíalismans getur útfærslan verið hagsmunir verkalýðsins. Þess vegna hvetjum við verkalýðinn að gefa heldur í baráttusjóð KSML og styðja þannig byltingarbaráttu öreiganna í verki. Sölumenn stéttabaráttunnar taka við framlögum í baráttusjóðinn.

<u>Tveggja kosta er völ: Alþjóðahyggja öreiganna í verki eða þjóðrembingssósíalismi.</u>

Borgararnir reyna að dylja stéttareðli útfærslunnar með því að ala á þjóðernishroka meðal íslenzku verkalýðsstéttarinnar. Í sérréttindabaráttu milli borgarastétta tveggja eða fleiri landa reyna þær ætíð að etja verkalýðsstétt gegn verkalýðsstétt til að dylja arðránið.

Fyrir íslenzka verkamenn eru enskir verkamenn settir fram sem andstæðingar í þessu máli. Íslenzku borgarastéttinni hefur ætíð verið lífsnauðsynlegt að dylja það, að íslenzkir verkamenn eiga meira sameiginlegt með verkalýðsstétt annarra landa en sinni eigin borgarastétt í baráttunni fyrir frelsi undan oki auðvaldsskipulagsins.

Í öllum styrjöldum hafa borgarastéttir auðvaldsheimsins rekið verkamenn landa sinna út á vígvöllinn sem fallbyssufóður. A nákvæmlega sama hátt gengur þetta nú. Brezkum og íslenzkum verkamönnum er att saman til baráttu fyrir sérréttindum borgaranna, þannig að þeim verði ekki ljóst hvar höfuðóvin þeirra er að finna.
Þess vegna er eitt mikilvægasta verkefni kommúnista að sýna öreigastéttinni fram á arðránsog kúgunareðli borgarastéttarinnar og benda þeim á stéttarsamstöðuna með öreigum annarra landa.

Afdráttarlaus stuðningur Kína við rétt íslenzku þjóðarinnar til útfærslu landhelginnar er sósíalísk utanríkisstefna og beinist gegn heimsvaldastefnunni. Rússnesku sósíalheimsvaldasinnarnir slípa hins vegar klærnar með því að vera á móti einhliða útfærslu. Þeim er heimsvaldið meira virði en sjálfstæði þjóðanna. Afstaða okkar kommúnista er í samræmi við utanríkisstefnu Kína, en barátta okkar hér - stétt gegn stétt - krefst þess, að við takmörkum stuðning okkar við landhelgisútfærsluna eingöngu við það að styðja hinn þjóðlega rétt Íslendinga til útfærslunnar, sem er réttur gegn kúgunarvaldi heimsvaldastefnunnar, um leið og við beitum öllu starfi okkar fyrir það takmark að kollsteypa borgarastéttinni, og sá sigur verður aldrei unninn öðru vísi en kommúnistarnir sífellt og við sérhverjar aðstæður afhjúpi afturhaldseðli borgarastéttarinnar.

<u>"Skipulag í stað rányrkju" - ómögulegt í auðvaldsskipulginu.</u>

A erlendum vettvangi nota íslenzku borgararnir einkum þá röksemd, að útfærslan sé "friðunarráðstöfun" á vísindalegum grundvelli til að koma í veg fyrir rányrkju. Hans G. Andersen vitnaði í skýrslu um ástand þorskstofnana í N-Atlantshafi, sem lögð var fram á ársfundi Norðvestur-Atlantshafsfiskveiðinefndarinnar, þegar hann hélt ræðu í Genf í ágúst s.l. :

"Af þessum sökum er varpað fram þeirri hugmynd (í skýrslunni, ath. s. okkar), að hin æskilega heildarsókn ætti að vera helmingur núverandi sóknar, og myndi það ekki rýra heildarveiðina, sé litið á langan tíma." (Tíminn, 22. ágúst 1972).

Hér bendir Hans réttilega á, að róttækra aðgerða er þörf gegn rányrkjunni. Hins vegar sér hann að sjálfsögðu hvorki ástæðuna fyrir rányrkjunni né að borgarastéttin er ófær um að koma skipulagi á framleiðsluna.

Drifkraftur kapítalismans er samkeppnin um hámarksgróðann. Til þess að verða ekki undir verður hver auðmaður að græða sem allra mest og grípa til hvers konar aðferða í þeim tilgangi. Þess vegna er aldrei hægt að koma heildarskipulagi á auðvaldsframleiðsluna. Stjórnleysið er eitt grundvallareinkenni hennar.

Þannig hefur þetta verið í fiskveiðum eins og á öðrum sviðum framleiðslunnar. Í sókn sinni eftir hámarksgróða hefur íslenzka útgerðarauðvaldið ekki svifizt neins frekar en útgerðarauðvald Þýzkalands eða Bretlands. Síldin, sem var nær þurrkuð út, er ljóslifandi dæmi.
Sömu meðferð hafa aðrir fiskistofnar fengið. Útgerðarauðvaldið stefnir jafnan flota sínum þangað, sem mesta gróðavonin er í svipinn.

Allt hjal þjóðlegu íslenzku borgaranna um "verndun fiskistofnanna" er lýðskrum - á sama tíma og þeir eru að stórauka fiskiflota sinn. Stefna þeirra er því raunverulega: íslenzk rányrkja í stað enskrar.

<u>Skipulag á framleiðslunni - aðeins mögulegt í sósíalismanum.</u>

Eina leiðin út úr ógöngum stjórnleysisins í kapítalismanum er, að öreigastéttin rísi upp og reisi alræði öreiganna með sósíalísku byltingunni. Þegar einkaeignin er afnumin og um leið gróðakeppnin milli auðmannanna, skapast skilyrðin til þess að skipuleggja framleiðsluna með þarfir meirihluta þjóðarinnar í huga. Í dag sýnir sósíalíska uppbyggingin í Kína og Albaníu þetta í reynd.

Borgaralegir vísindamenn sjá svart á hvítu hvert rányrkja auðvaldsins leiðir. Ingvar Hallgrímsson fiskifræðingur sagði í ræðu 4. sept. s.l.: "...sér hver heilvita maður nú, að aðalatvinnuveg Íslendinga er ekki hægt að byggja á neinu leyti á rányrkju eða stjórnleysi. Og hér þarf róttækra aðgerða við."

## Námshringur KSML á veggspjaldi !

KSML hefur gert veggspjald um grundvallar námshringinn, sem var einnig oppnan í síðasta blaði. Þeir sem óska eftir að fá þetta veggblað geta pantað það hjá Einari Andréssyni sími: 34287., eða keypt það á bókaborðinu, sem verður á laugardögum fyrir hádegi í bakarabrekkunni. Verð kr. 30,-.

## KSML vantar húsnæði

Frá því í vor s.l. hafa KSML verið í leit að húsnæði, en ekki borið árangur, þrátt fyrir ítrekaðar tilraunir. Ástæðan er sú, að svör flestra húsnæðiseigenda í Reykjavík hafa hljóðað á þá leið, að þeir leigja ekki kommúnistum". Við viljum því hvetja alla stuðningsmenn okkar til að hafa samband við okkur, ef þeir vita af eða hafa húsnæði til leigu á **Reykjavíkursvæðinu, sem myndi henta okkur.**

## Þér eruð rekinn!

Fylkingin "kampfbund der sozialisten" hefur nú endanlega skorið úr um það, að hún er halaklepri borgaranna! Hið rotna lýðræði, einkenni smáborgarasamtaka, hefur nú reitt hamarinn og kveðið upp dóm.
Þrátt fyrir, að allar stefnur, anarkistar, trotskyistar, syndikalistar, guevaraistar, castroistar, krúsjeffsinnar, kratar og smáborgaralegir vinstrimenn séu "nauðsynlegir til að geta mótað stefnu og starfsaðferðir" Fylkingarinnar, eru bjöllusauðirnir í forystunni á einu máli um að kommúnista verði að reka, þeir séu andstæðir pólitík Fylkingarinnar!
Þannig hafa félagar úr KSML fengið útvísunarbréf eins og þetta, sem hér birtist. Engin fræðileg umræða fer fram út af brottrekstrinum, aðeins kurteisleg brottvísun: skv. 7. kafla sambandslaga eruð þér rekinn!!
Verkamenn og heiðarlegir stuðningsmenn öreigastéttarinnar, sem enn eruð innan Fylkingarinnar, fylkið ykkur undir rauðan byltingarfána marxismans-lenínismans-hugsunar Maós Tsetungs!
Bíðið ekki eftir brottrekstri forystuklíkunnar, gangið strax úr Fylkingunni og hefjið byltingarsinnað námsstarf í námshring KSML!

FYLKINGIN
BARÁTTUSAMTÖK SÓSÍALISTA
KAMPFBUND DER SOZIALISTEN
Laugavegi 53 A • Sími 17513
Reykjavík • ÍSLAND

Reykjavík 1.7. 1972

t.r. Hjálmtýr Heiðdal

Hér með tilkynnist að fela[illegible]fundur haldinn 22.6. 1972 samþykkti einróma að vísa yður úr Fylkingunni baráttusamtökum sósíalista, þar sem þér hafið brotið [illegible] sambandslaga Fylkingarinnar, baráttusamtaka sósíalista er hljóða svo: "Sérhver félagi, er gerir sig vísvitandi sekan um athöfn, sem er sambandinu til tjóns eða vanvirðu eða starfar í opinberri andstöðu við yfirlýsta stefnu þess og ákvarðanir, er Brottrækur. Félagi, sem telur sig órétti beittan getur jafnan skotið máli sínu til úrskurðar miðstjórnar og/eða sambandsþings."

f.h. stjórnar Reykjavíkur-
deildar Fylkingarinnar.

[signature]

## Námshringur KSML

BYLTINGARSINNAÐ NÁMSSTARF - BARÁTTA GEGN HENTISTEFNUNNI!

Þegar öreigarnir taka að skipuleggja sig á byltingargrundvelli er þeim nauðsynlegt að láta fræðikenninguna leiða allt starf sitt til að þeir fari ekki villur vega í stéttabaráttunni líkt og gerðist á þrítugasta áratugnum í KFÍ. Þá höfðu félagar í KFÍ mjög litla þekkingu á almennum atriðum marxismans og gátu því ekki mótað rétta afstöðu gegn hentistefnunni. Af þessari reynslu KFÍ höfum við lært og setjum því fram sem höfuðverkefni byltingarsinnað námsstarf.

Námsstarfið skiptist í tvo þætti, grundvallarnám og framhaldsnám. Grundvallarnámið þjónar því hlutverki að byggja grunninn fyrir framhaldsnámið, sem er leiðandi þáttur námsstarfsins.

KSML skorar á alla stéttvísa öreiga og stuðningsmenn öreigastéttarinnar að hefja baráttu gegn alræði auðvaldsins og hentistefnunni með því að hefja nám í marxismanum-lenínismanum-hugsun Maós Tsetungs. Hafið samband við sölufólk Stéttabaráttunnar eða Hjálmtýr Heiðdal í síma 12993 eða skrifið til KSML, Pósthólf 1357, Rvk.

Grundvallarnámshringur KSML:

1. fundur: Kommúnistaávarpið. (Marx/Engels Úrvalsrit I, bls. 26-53.)
2. fundur: Díalektíska og sögulega efnishyggjan. (J. V. Stalín, Saga Kommúnistaflokks Ráðstjórnarríkjanna, bls. 182-228.)
3. fundur: Um starfið. (Maó Tsetung Ritgerðir I, bls. 9-29.)
4. fundur: Pólitíska hagfræðin I (Marx/Engels Úrvalsrit, bls. 173-201)
5. fundur: Pólitíska hagfræðin II (V. I. Lenín, Heimsvaldastefnan, bls 13-14, bls. 115-130 og bls. 163-171 og Marx/Engels Úrvalsrit I, bls. 113-117.
6. fundur: Um ríkið. (Lenín Ríki og bylting, bls. 7-27 og bls. 45-71.)
7. fundur: Ástandið í heiminum í dag. (Tillaga um meginstefnu alþjóðahreyfingar kommúnista, bréf miðstjórnar Kommúnistaflokks Kína til miðstjórnar Kommúnistafl. Sovétríkjanna frá '63 : 25 punktarnir.)
8. fundur: Um flokkinn. (Lenín: Inngönguskilyrði í Alþjóðasamband kommúnista og Saga Kommúnistaflokks Ráðstjórnarríkjanna bls. 617-634.)

FRAM TIL BARÁTTU FYRIR BYLTINGARSINNUÐU NÁMSSTARFI ÖREIGASTÉTTARINNAR!

ÁN BYLTINGARSINNAÐRAR FRÆÐIKENNINGAR GETUR ENGIN BYLTINGARSINNUÐ HREYFING ÁTT SÉR STAÐ!







**VERKAMENN!**
Án þekkingar um stéttarlegt eðli og orsakir verkfalla verður barátta okkar aðeins barátta um krónu til eða frá. Krónu, sem verður hirt af okkur aftur með verðhækkunum eða öðrum meðulum hins kapítalíska ríkisvalds. Alþjóðleg baráttureynsla stéttarbræðra okkar í verkföllum við margbreytilegar aðstæður er vopnið, sem við verðum að beita gegn hertu arðráni og launaskerðingu auðvaldsins og til þess að geta gert verkfallsbaráttuna að byltingarsinnaðri baráttu fyrir sósíalismanum.
Lesið bæklinga KSML:
REYNSLAN AF KJARABARÁTTUNNI
(Strasborgarályktunin frá þingi Alþjóðasambands Rauðra Verkalýðsfélaga 1929)
og UM VERKFÖLL eftir V. I. Lenín.

# Endurskoðunarsinnarnir í Kreml




Myndskreyting úr endurskoðunarsinnuðu sovézku tímariti. Titill myndarinnar er: "Hin kraftmikla eimreið" með áletruninni fremst á lestinni "Ein rúbla". Með myndinni er sovézku þjóðinni talin trú um, að "peningar séu sú lest, sem dregur allt áfram", sem er eitruð kapítalísk hugmynd.

STÉTTABARÁTTAN Í RÁÐSTJÓRNARRÍKJUNUM.

Reynslan af alræði öreiganna í fyrsta sósíalíska ríkinu, sigrum þess og tímabundnum ósigrum, er stórfelldur áfangi á sigurbraut sósíalismans. Stéttabaráttan var þar langærri og harðvítugri en hægt var að sjá fyrir, þar sem borgaraöflin sóttu að af öllum mætti, bæði innanlands og utan frá, að þessum einsamla framherja sósíalismans.

Lenín og Stalín sýndu fram á, að ríkisvald öreiganna gæti ekki dáið út meðan sósíalisminn hefði aðeins sigrað í einu eða fáum löndum. Þvert á móti - ríkisvald öreiganna þyrfti að efla með öllum ráðum, ef auðvaldið ætti ekki að ná aftur yfirhöndinni.

Stalín gerði sér einnig grein fyrir því, að stéttabaráttan í sósíalismanum er háð á tveim vígstöðvum: við auðvaldsþjóðirnar og við borgaraöflin í eigin landi. Varðandi baráttuna innanlands skilgreindi Stalín, að hún fer fram á þrem sviðum: í pólitíkinni, hugmyndafræðinni og í hagkerfinu. Einnig að hún er bæði barátta við opna fjandsemi gömlu yfirstéttina og við "nýjustu meinvaldana, sem eru með flokksskírteini upp á vasann og blekkja flokksmeðlimi okkar í skjóli þess, að þeim er treyst sem flokksfélögum - og notfæra sér þannig pólitískt grandvaraleysi þeirra."

Ein af meginástæðunum fyrir þessu pólitíska grandvaraleysi var sú, að ekki hafði tekizt að leysa hina mikilvægu móthverfu milli fræðikenningar og starfs. Þess vegna varð til hópur manna, sem fékkst nær eingöngu við stjórnun og fræðileg störf, en aðrir fengu litla fræðilega starfsreynslu. Aukin fræðiskólun var ekki einhlít á þessu stigi, enda þurfti starfsreynslan að aukast til að hægt væri að stíga skref fram á við í fræðikenningunni um alræði öreiganna. Það sögulega skref stigu síðar kínverskir kommúnistar undir forystu Maós Tsetungs.

Þrátt fyrir marga sigra yfir gagnbyltingaröflunum tókst þeim að smjúga inn í miðstjórn flokksins. Eftir lát Stalíns 1953 var háð hörð barátta milli marxista-lenínista og endurskoðunarsinna undir forystu Krústjovs.

SIGUR ENDURSKOÐUNARSINNA.

Krústjovs-klíkan gekk nú á lagið og gerði skipulega árás á sósíalismann. Pólitíkin er ævinlega barátta um völd og því byrjuðu Krústjovsmenn á því að hreiðra um sig í miðstjórn flokksins til að tryggja valdaránið og síðan að "hreinsa til" í ríkisstjórn, lögreglu og víðar. Á flokksþinginu 1956 var þessum áfanga náð. Í þinglok treysti klíkan sér loks til að boða hina nýju stefnu með því borgaralega bragði að úthúða persónunni Stalín og bera á hann ýmsar stefnuvillur, í meginatriðum það að hafa staðið vörð um alræði öreiganna og ekki gefið borgaraöflunum lausan tauminn.

Nú sneri klíkan sér að því með uppbrettar ermar að endurreisa auðvaldið og borgaralega hugmyndafræði.

Stalín hafði bent á veiku hlekkina, sem voru í hagkerfinu. Þeir voru einkum í landbúnaði, þar sem ekki var enn kominn ríkiseign, heldur mest megnis samyrkjubú og hluti afurðanna framleiddur fyrir markaðssölu. Framsæknasti hluti landbúnaðarins voru miðstöðvar með landbúnaðarvélum í eigu ríkisins. Þær lánuðu vélar til samyrkjubúanna og voru því eitt helzta stjórntæki sósíalismans á þessu sviði.

Krústjov tók á snögga blettinum, leysti upp ríkisstöðvarnar og afhenti samyrkjubúunum vélarnar. Þannig var miðstjórnin á framleiðslunni veikt og þar með alræði öreiganna á hagkerfinu, og grundvöllur skapaður fyrir stjórnleysi í framleiðslunni með því að auka einkaeign samyrkjubúanna.

Nýir "landvinningar" í hugmyndafræðinni fylgdu fast á eftir og gegndu því meginhlutverki að leiða huga öreiganna frá stéttabaráttunni. Sósíaldemókratar og önnur borgaraleg öfl áttu nú að rata leiðina til sósíalismans eftir friðsamlegum leiðum - á sama tíma og auðvaldsheimurinn er á heimsvaldastiginu og fasismi og vopnavald eru nærtækari en nokkurn tíma. Það átti að nægja að punda inn peningum í nýfrjáls ríki og þessir peningar myndu "jafnvel hraða innri ferlum, sem leiða myndu þessi lönd á hinn breiða veg, sem liggur til sósíalismans," (Krústjov.) Hins vegar væru "staðbundin stríð" (les: þjóðfrelsisstríð og byltingar) "mjög hættuleg" - og: "við munum leggja okkur fram um að slökkva þá neista, sem kynnu að kveikja stríð."

Hæstri þróun náði endurskoðunarstefnan "fræðilega", þegar sett var fram kenningin um flokk allrar þjóðarinnar og ríki allrar þjóðarinnar. Þessi fyrirbrigði áttu nú að hafa tekið við af framverði öreigastéttarinnar, kommúnistaflokknum, og kúgunartæki öreigastéttarinnar yfir borgurunum, ríkisvaldinu. Þessi kenning er fráleit, því að sæti öll sovézka þjóðin í sama báti, eins og Krústjovítarnir láta þarna í ljós, væri ekki þörf fyrir neinn flokk og ríkisvaldið dáið út. Öll þessi speki er ekki annað en stéttasamvinnupólitík borgaranna í nýju gervi, sósíalfasismi á háu stigi, þar sem hreinn fasisminn er á næsta leyti.

AUÐVALDSKERFIÐ Í SOVÉTRÍKJUNUM.

Endurskoðunarstefnan var gerð að samfelldu auðvaldskerfi með frekari eyðileggingu hins sósíalíska hagkerfis. Hagstjórnin færðist æ meir til einstakra verksmiðjustjóra og klíka þeirra, skriffinna og tækni- og rekstrarstjóra, sem nú mynda hina nýju kapítalísku yfirstétt. Nú ákvarðast framleiðslan ekki samkvæmt þörfum heildarinnar, heldur af gróðafíkn klíkanna.

Við getum nefnt nokkur dæmi af handahófi. Kúlulegaverksmiðja ríkisins í Mínsk átti kost á að auka lítillega nákvæmnina í framleiðslu á kúlulegum, þannig að endingin ykist um 20%. Þetta hefði þýtt 30 þúsund rúblna aukakostnað og lækkun gróðans um nokkur prósent, svo að endurbótunum var hafnað. - Brask og svindl gróa eins og sveppir á haug. Í Svérdlovsk og Gorkí er "frjáls" markaður með framleiðslutæki, sem forstjórarnir koma undan með bókhaldsbrögðum. Forstjórarnir raka saman gróða. Verkamannanna bíður vaxandi öryggisleysi - atvinnuleysi, þegar gróðalögmálin og "hagræðingin" kasta þeim út. Járn- og stálverksmiðjan Rauði október reiknaði út gróðamöguleikana og rak 730 verkamenn. Málmsmiðja og Ararafríkisbúið í Svérdlovsk ráða börn í vinnu eftir skóla, borga þeim barnakaup og láta þau vinna verk fullorðinna. Akvæðisvinna og verðlaunakerfi auka launamun og vinnuálag og þar með arðránið (eins og allir þekkja úr Straumsvík). Forstjórarnir hafa ráðin yfir þessu eins og öðru og veita sjálfum sér drýgstu aukabitana. Tvö flutningafyrirtæki í Leníngrad fengu "frelsi" og lækkuðu laun verkamanna um 9% og hækkuðu forstjórakaupið um 40%. Forstjóri fyrir samyrkjubúi í Aserbæjan-lýðveldi fær 1076 rúblur í mánaðarlaun. Landbúnaðarverkamaður þar fær undir 38 rúblum. Nýju zarirnir verzla í sérstökum verzlunum, hafa ókeypis húsnæði, sumarbústaði og sérþjónustu hjá læknum og sjúkrahúsum.

Á flokksþingi í fyrra lagði Kosygín áherzlu á "skynsamlegri nýtingu vinnuafls" og að nú þyrfti að "fullkomna vöru- og peningakerfið". Þetta eru hvatningar og loforð til yfirstéttarinnar um aukið arðrán. "Ræðumaður minnti á það," segir í fréttum APN, "að vöru- og peningakerfið í Sovétríkjunum hefði nýtt inntak, sem eiginlegt væri sósíalismanum." Verkamenn í Ráðstjórnarríkjunum, landi hinnar miklu Októberbyltingar og leiðsagnar Leníns og Stalíns, munu vita um það, að kúgun peningavaldsins er söm og jöfn, hver sem áletrunin er. En formið á arðráni og kúgun auðvaldsins er með ýmsu móti. Í Ráðstjórnarríkjunum er ríkisvaldið öflugt kúgunartæki borgaranna, sem boða stéttasamvinnu með sósíalisma á vörunum, og lýðréttindi eru vanvirt. Því er réttmæt skilgreining félaga Maós frá 1964: "Ráðstjórnarríkin í dag eru undir alræði borgaranna, alræði, sem er af sömu tegund og þýzku fasistanna, alræði af Hitlers-gerð."

SÓSÍALHEIMSVALDASTEFNAN.

Sósíalfasismi í hámarki inn á við þýðir sósíalheimsvaldastefnu út á við. Nýju zarirnir hafa fært sig æ meir upp á skaftið í kúgun sinni og arðráni á öðrum þjóðum, frá lævísum undirróðri um blessun sósíaldemókratísins til vopnaðrar íhlutunar, t.d. í Tékkóslóvakíu.

Nánustu bandalagsríki falla inn í framleiðslukerfi móðurlandsins á fullkominn hátt (selur dýrt, kaupir ódýrt). Þessu kerfi reyna þeir að neyða upp á sem flestar þjóðir - eins og segir í fréttaskeyti APN, sem birtist í Þjóðviljanum: "Aðstoð Sovétríkjanna við þróunarlöndin hefur sýnt, að hagkvæmasta form slíkrar aðstoðar fyrir báða aðilja er bygging verksmiðja, er framleiða vörur, er Sovétríkin þarfnast."

Sósíalheimsvaldastefnan er vörðuð með kúgun á frelsishreyfingu undir forystu Lúmúmba í Kongó, ævintýramennsku með eldflaugar á Kúbu, jáyrði við Roger-áætluninni um að bæla niður Arabaskæruliða, nýlendukúgun á Indlandi og Austur-Pakistan (Bangla Desh), stöðugum ógnunum við Kína o.s.frv. Sovézki flotinn er á sveimi um öll höf og keppir við bandaríska heimsvaldaflotann. Sem nýtt dæmi úr hlaðanum má taka Egyptaland. Brésnev-Kosygín-klíkan þóttist veita Egyptum hernaðaraðstoð gegn heimsvaldastefnu síonista. Þegar til kastanna kom fólst hún í alls ófullnægjandi magni af gagnslitlum vopnum, sem seld voru á tvöföldu verði. Hins vegar sýndu þeir lifandi áhuga á því að koma upp eigin herstöðvum í landinu.

KREPPA SÓSÍALHEIMSVALDASTEFNUNNAR.

Sósíalheimsvaldasinnarnir eru nú komnir í allsherjarkreppu á öllum sviðum. Egypska ævintýrinu lyktaði með því, að allri sovézkri "aðstoð" var vísað á dyr. Aðeins fulltrúar 7 þjóða studdu hernaðarbrölt Sovétríkjanna og Indlands í Austur-Pakistan, þegar greidd voru atkvæði hjá Sameinuðu þjóðunum, en 104 voru á móti. Hýenuvæl sósíalheimsvaldastefnunnar verður sífellt greinilegra bak við fagurgala um alþjóðahyggju öreiganna.

Með endurreisn auðvaldsins hefst einnig keppni milli hópa innan þess. Borgaraklíkurnar í hjáleigunum vilja sjálfar sitja að krásunum og hefja gagnbyltingu innan gagnbyltingarinnar, sbr. Tékkóslóvakíu, Rúmeníu og nú vaxandi í Austur-Þýzkalandi.

Mikilvægt er, að kommúnistaflokkar nokkurra landa risu fljótt til gagnsóknar með Albaníu og Kína í broddi fylkingar. Byltingarhreyfinguna á Norðurlöndum má skoða sem þátt í þessari sókn.

Endurskoðunarsinnar geta ekki skilið söguþróunina, því að hún afhjúpar afturhaldseðli þeirra og sýnir, að málstaður þeirra er vonlaus. En tímabundinn sigur endurskoðunarsinna í Ráðstjórnarríkjunum og fleiri löndum veitti öreigum allra landa ómetanlega reynslu af því, hvernig haga skal alræði þeirra. Á grundvelli þeirrar reynslu tóku öreigarnir frumkvæði til að staðfesta alræði sitt og tryggðu nýjan stórsigur sósíalismans - menningarbyltinguna í Kína.

Með valdatöku sósíalheimsvaldasinnanna hefur stéttabaráttan í Ráðstjórnarríkjunum tekið á sig nýtt form. Vald þeirra er kúgunarvald borgaranna yfir verkalýðsstéttinni, sem er viðhaldið með lýðskrumi um, að þróunin stefni í átt til kommúnisma, samtímis sem þeir gera hverja kapítalíska efnahagsaðgerðina eftir aðra. Þar sem ekki duga aðferðir lýðskrums og orðflærðar, er verkalýðurinn kúgaður með fasísku ofbeldi.

Hinn kúgaði og arðrændi verkalýður endurskoðunarlandanna er þegar tekinn að undirbúa nýja Októberbyltingu.

(APN er fréttastofa endurskoðunarsinna í Sovét. Þeir hafa útibú á Íslandi og gefa út Fréttir frá Sovétríkjunum, sem hægt er að fá ókeypis áskrift á með því að skrifa til: Fréttastofan APN, Túngötu 8, Reykjavík. Fylgjumst með endurskoðunarsinnunum og afhjúpum þá!)

# Ósérhlífinn stuðningur Kína við Víet Nam!

Eins og venjulega gefa fjölmiðlar borgaranna einhliða mynd af baráttu alþýðunnar í víetnamska lýðveldinu. Fjölmiðlarnir einskorða frásagnir sínar við hryðjuverkasprengingarnar, tundurduflalagnir osfrv., þannig að ætla mætti, að Víet Namarnir væru orðnir einangraðir og útlit væri fyrir því að þeir myndu gefast upp eftir skamman tíma. Frásagnir um hvernig þessi villimannlegu ódæðisverk í raun og veru styrkja eininguna og auka stéttarhatrið á amerísku heimsvaldasinnunum, heyrast ekki. Ekki heldur frásagnir um hvernig þessi ódæði gera alþýðu Víet Nam og annarra landa Indókína enn ákveðnari í að gjörsigra fjandmann sinn. Ekkert heyrist heldur um það hvernig Alþýðulýðveldið Kína styður á raunhæfan hátt baráttu Víet Nama samkvæmt óskum þeirra sjálfra hverju sinni, á meðan sovézku sósíalheimsvaldasinnarnir reyna með skemmdarverkum sínum á stjórnmálasviðinu að þvinga þá til uppgjafar. Staðreyndir sýna, að sósíalheimsvaldasinnarnir reyna að notfæra sér í þessu stríði, eins og í Bangla-Desh og í Arabalöndunum, alvarlegt stjórnmála- eða hernaðarlegt ástand til framdráttar heimsvaldasinnaðri ágirnd sinni, í sama mund og þeir þykjast vera gegn heimsvaldastefnu í hvaða mynd sem er. Þessi sóðalegi leikur þeirra er framkvæmdur með samþykki USA-heimsvaldasinna með það fyrir augum að styrkja hernaðarlega stöðu gagnbyltingarafla allt umhverfis Kína.

Vo Nguyen Giap: "Miklir sigrar fyrir framtíðina unnir í Víet Nam."

"Í stríðinu við amerísku árásarseggina, þ.e. a.s. í stríðinu fyrir frelsi þjóðarinnar, hafa verið unnir stórir sigrar fyrir framtíðina og stöðugt eru unnir fleiri og meiri sigrar, sem alþýða Víet Nam og bræður hennar í Laos og Kambódíu berjast fyrir." Þetta sagði fremsti hernaðarráðgjafi Víet Nama og vara forsætis- og varnarmálaráðherra víetnamska lýðveldisins við móttökuathöfn hjá hermálafulltrúa Kína í Hanoi þ. 31. júlí 1971, þegar haldið var hátíðlegt 45 ára afmæli kínverska frelsishersins.

Aðgerðir FNL síðastliðnar vikur staðfesta þessi ummæli. Miklum árangri hefur verið náð m.a. á svæðum í nágrenni Saigon. Bráðabirgðaríkisstjórn sameinaðs Víet Nams segir í niðurstöðu sinni eftir fjögurra mánaða baráttu, að sigrar, sem unnizt hafi á þessu tímabili: "hafi orðið til að breyta styrktarhlutföllunum milli okkar og fjandmannanna á áhrifaríkan hátt og veikt varnarstöðu óvinarins á orrustuvöllunum í Suður Víet Nam."

Tilraunir Nixons til að láta hermenn leppstjórnarinnar í Suður Víet Nam taka við landhernaðinum urðu að dufti. V. N. Giap sagði, þegar hann fordæmdi villimannlegar árásir amerísku heimsvaldasinnanna á óbreytt alþýðufólk í Suður- og Norður Víet Nam: "Nixon getur engan veginn bjargað hinni rotnu leppstjórnarklíku frá falli með þátttöku amerískra sjó- og loftherja, honum mun heldur ekki takast með hernaðaráætlun sína um aukna þátttöku suðurvíetnamskra hermanna í stríðinu."

Stuðningur Kínverja.

Vo Nguyen Giap talaði af hlýju um hvernig langvarandi vinátta alþýðunnar og hernaðarleg samábyrgð þessara tveggja sósíalísku landa, Víet Nam og Kína, hefðu bundizt æ traustari böndum og þróast. Kínverski hermálafulltrúinn, Chang Hsui-shan, svaraði og lýsti yfir fullum stuðningi kínverskrar alþýðu og herja hennar við baráttu Víet Nama. "Hvað svo sem gerist munum við sameinast, berjast og vinna sigra með víetnamskri alþýðu og bræðrum hennar í Indókína."

Þetta eru ekki bara orðin tóm. Samkvæmt fréttamanni utanríkismála við albanska blaðið Rödd Fólksins munu kínverskir alþýðumenn koma sem sjálfboðaliðar og taka þátt í baráttunni með Víet Nömum, þegar þeir óska þess. Nú þegar veita Kínverjar Víetnömum bæði efnahags- og efnislega aðstoð í baráttunni gegn USA heimsvaldasinnunum.

Nokkrar fataverksmiðjur í Kína framleiða nær eingöngu klæði sem ætluð eru til sendinga til Víet Nam. Enn aðrar verksmiðjur framleiða matarskammta fyrir Þjóðfrelsisherinn.

Flutningabílar eru sendir frá verksmiðjum í Mansjúríu, bátar frá Tienshin, rafmótorar og annað þeim fylgjandi er sent frá Shanghai. Frá Suður-Kína eru send hrísgrjón, 800 þús. tonn á ári segir í franska blaðinu Le Monde 22. júní '72. Þessi 800 þús. tonn eru jafn mikið og sjötti hluti allrar hrísgrjónaframleiðslu Lýðveldisins Víet Nam.

Af hergögnum senda Kínverjar mest af léttum vopnum og stórskotaliðsvopnum, allt af nýjustu gerð. Aukalestir eru í flutningum milli Nanking í Kína og Hanoi og skipa- og vegaflutningar eru notaðir til að útiloka árangurinn af sprengjulögnum Bandaríkjanna í Haiphong höfninni. Átta aðalflutningaleiðir eru frá Kína inn í Víet Nam og þar að auki járnbrautaleiðir, sem eru notaðar fyrir þyngri flutning. Þúsundir kínverskra smábáta, allt upp í 400 tonn að burðarmagni, eru í flutningum milli kínverskra hafna og smáhafna í Víet Nam. Tvær olíuleiðslur, sem flytja eldsneyti frá Kína til Víet Nam, hafa verið lagðar neðanjarðar. USA-generálarnir fyllast brjálæði vegna þess að þeir geta ekki staðsett þessar mikilvægu lífæðar. Annar þrándur í þeirra götu er uppbygging varnarstöðvar Kínverja á eynni Hainan við mynni Tonkinflóans með herafla og eldflaugum.

Í lýðveldinu Víet Nam hafa flokkurinn og ríkisstjórnin skipulagt hreyfingar meðal fólksins um gervallt landið, svo að nauðþurftir komist ávallt og undir öllum kringumstæðum til vígvallarins. Í hverju héraði hafa verið stofnuð svokölluð flutningaráðuneyti. Kjarni þessara ráðuneyta eru vel skipulagðar sveitir, sem tilbúnar eru með litlum fyrirvara að gera bráðabirgðaviðgerðir á brúm og vegum. Til hjálpar þessum sérsveitum kemur fólkið, sem býr í nágrenni brúnna og veganna, sem hafa orðið fyrir skemmdum. Í sjálfboðavinnu er gert við brýr, vegi og ferjur. Við brúna á svæði "B" í Dien Chau-héraði eru sprengjugígarnir fylltir jafnóðum, svo að hægt sé að halda uppi stöðugum flutningum eftir vegunum, þrátt fyrir daglegar

# KÍNA: Höfuðvígi sósíalismans í heiminum í dag!

Sósíalisminn stendur í skarpri mótsögn við sundurlausn og æpandi mótsetningar heimsvaldastefnunnar, þar sem hann hefur verið festur í sessi í Kína, Albaníu, N.-Kóreu og N.-Víet Nam og þróast upp í nýtt og blómstrandi þjóðfélagskerfi.
Sósíalísku löndin eru orðin að styrku vígi gegn árásum heimsvaldasinna og sósíalheimsvaldasinna, sem þeir gera í þeim tilgangi að brjóta þau niður með valdi utan frá og grafa undan stoðum þeirra innan frá. Menningarbyltingin í Kína og þróunin í Albaníu hafa sérstaklega orðið byltingarflokkum heimsins vegvísir í baráttunni gegn sósíalheimsvaldastefnunni og nútíma-endurskoðunarstefnunni, sem eru fulltrúar borgarastéttarinnar innan heimshreyfingar kommúnismans.

## EKKERT ATVINNULEYSI!

Í dag, þegar kreppan heldur innreið sína í auðvaldsheiminn á nýjan leik og milljónaatvinnuleysi og hungursneyð fyrir hinn vinnandi lýð fylgir í kjölfarið, heldur uppbyggingarstarfið í hinu sósíalíska Kína áfram með stökkkenndum hraða. Iðnaðurinn er aukinn gífurlega og landbúnaðurinn vélvæddur og tekur á sig mynd tæknialdarinnar.

Í Kína fyrirfinnst ekkert atvinnuleysi né hungur, sem eru fylgifiskar hins kapítalíska arðráns. Orsökin er einfaldlega sú, að í Kína er verkalýðurinn frjáls undan hvers kyns arðráni og er eigandi framleiðslutækjanna, sem hann vinnur við. Framleiðslan ákvarðast ekki af gróðaleit einstaklinga, heldur samkvæmt þörfum þjóðfélagsheildarinnar. Verðbólga og launalækkanir eru óþekkt fyrirbæri í Kína, ríkisstjórnin hefur aftur á móti oftar en einu sinni hækkað laun verkamanna og á þetta sérstaklega við um þá, sem höfðu lægstu launin.

Meðallaun kínversks verkamanns eru u.þ.b. 650 yuan, sem er 50% hærra en 1952. Mismunurinn á launum hinna hæst og lægst launuðu er mjög lítill. Þar sem atvinnuleysi er óþekkt, húsaleiga lág, vörurnar ódýrar og enginn tekjuskattur á laununum, er lífsafkoma verkamanna trygg og batnar stöðugt. Þeir þurfa ekki að sjá af laununum í gin leiguokrara, svindlara og braskara. Sem dæmi má nefna, að 1969 var verð á lækningavörum lækkað um 80% (miðað við 1950), inneign verkamanna og bænda í bönkum hafði hækkað um 28% frá 1965-70 og á meðan hefur verð á nauðsynjavörum, grjónum, ullarfötum, salti o.s.frv. staðið í stað.

## SÓSÍALÍSK FRAMLEIÐSLA!

Þegar skipulag öreigastéttarinnar hrindir stjórnleysi auðvaldsins úr vegi táknar það, að framleiðsluöflin brjóta af sér þann klafa, sem einkaeignin batt þau í. Þannig hefur hið fátæka bændaland, sem Kína var 1949, verið reist á tveimur áratugum upp í að verða eitt af háþróuðustu iðnaðarlöndum heims. Kína, sem fram til 1948 átti við lík vandamál að stríða og Indland í dag, árlegar hungursneyðir og farsóttir, er í dag land, þar sem þessar fylgjur auðvaldsins fyrirfinnast ekki. Ástæðan er sú, að arðránsfjötrar erlendra heimsvaldasinna og innlendra lénsherra voru sprengdir og alræði öreiganna reist með liðsstyrk smábændanna.

Í dag, þegar Kína framkvæmir fjórðu 5-ára-áætlunina sína, er hún gerð með aðstoð rafeindaheila. Bara á árinu 1971 urðu óhemjulegar framfarir á sviði iðnaðarins. Sem dæmi má nefna, að stálframleiðslan var aukin um 18%, hráolíuframleiðsla um 27,2%, sementsframleiðsla um 16,5%, framleiðsla tilbúins áburðar var aukin um 20,2% og framleiðsla á tækjum til námugraftar um 68,8%. Samanlagt var framleiðslan í iðnaði og landbúnaði aukin um 10% á þessu eina ári.

## ENGIN MÓTSETNING MILLI STARFS OG FRÆÐA!

Það, sem gerir þetta stökk á sviði framleiðslunnar mögulegt, er að verkalýðurinn hefur tekið völdin í þjóðfélaginu. Undir leiðsögn Maós Tsetungs og Kínverska Kommúnistaflokksins er baráttan gegn leifum borgaralega þjóðfélagsins háð á öllum sviðum þjóðfélagsins, einnig í framleiðslunni. Móthverfan á milli fræðikenningar og starfs, sem gegnumsýrir hið borgaralega þjóðfélag, er á undanhaldi. Í Kína vinna allir í framleiðslunni, alveg burtséð frá því hvaða hlutverki þeir gegna í þjóðfélaginu. Verkamennirnir, sem vinna að byggingu iðjuvera, brúa og annarra mannvirkja, eru sjálfir verkfræðingar og arkitektar. Bilið á milli skrifborðsvinnu verkfræðingsins og fagvinnu verkamannsins hefur verið minnkað.

Hin vinnandi stétt, sem hefur tekið völdin, setur mark sitt á alla þætti þjóðfélagsins, og markvisst er unnið að afnámi leifanna af skrifstofubákninu, sem er einkenni allra auðvaldslanda. Þannig vinna verkamennirnir ekki aðeins saman, heldur nema þeir marxismann-lenínismann sameiginlega og nota hann að leiðarljósi í störfum sínum.

Þannig ákvað byltingarráðið í Fengshien-héraði fyrir utan Shanghai að brúa hinar ótalmörgu ár, sem skera héraðið, í samræmi við þá auknu tækni, sem landbúnaðurinn hafði náð og endurbyggja gamlar trébrýr, sem fyrir voru.
Með orð Maós: "Gætið sjálfstæðisins, haldið frumkvæðinu í eigin höndum og treystið á eigin krafta" að leiðarljósi byrjuðu bændurnir að mennta sig til að öðlast þá þekkingu, er til þurfti, undir leiðsögn byltingarráðsins.
Á örfáum árum voru yfir 500 bændur tæknimenntaðir í brúarsmíðum og þeir teiknuðu og byggðu sjálfir rúmlega 1600 brýr og sú stærsta var 60 metrar á milli stólpa. Þannig er fræðikenningin hvarvetna tengd starfinu í framleiðslunni.

## KOMMÚNURNAR.

Samfara vélvæðingu og endurskipulagningu landbúnaðarins hefur móthverfan milli borga og sveita minnkað. Framleiðslunni er dreift jafnt yfir byggðir landsins, svo að menningar- og iðnþróun allra landshluta haldist í hendur.

Stórt skref í þessa átt var stigið 1958, þegar landinu var skipt upp í kommúnur. Hver kommúna er eining, sem hefur pólitíska sjálfsstjórn og heyrir undir ríkið. Hver kommúna framleiðir eftir fremsta megni allar nauðþurftir sínar og innan hennar er að finna skóla, iðnað, sjúkrahús og varnarsveitir - þjóðvarnarsveitirnar, sem allir meðlimir kommúnunnar taka þátt í og fá þar hernaðarlega þjálfun til að geta mætt óvininum af einurð og hörku, ef til kemur.

Gömlu jarðeigendurnir búa ennþá í kommúnunum, en þeir hafa ekki ákvörðunarrétt um mál kommúnunnar. "Að hafa ríkan bónda eða fyrrverandi gósseiganda í kommúnunni er eins og að hafa snák í vasanum. Um leið og eitthvað fer úrskeiðis reynir hann að notfæra sér það." Þetta er orðtæki í kommúnunum og sýnir hversu vel á verði bændurnir eru gegn hinum borgaralega hugsunarhætti og að þeir hafa ekki gleymt stéttaróvininum. Í hverri kommúnu eru félagar kínverska kommúnistaflokksins leiðandi við að þróa kommúnuna og halda aftur af stéttaróvininum. Maó hefur margoft sagt: "Gleymið ekki stéttabaráttunni." Öreigarnir og bændurnir starfa ávallt með pólitíkina að leiðarljósi.

## FLOKKURINN.

Baráttan fyrir uppbyggingu sósíalismans í Kína er hvarvetna háð undir leiðsögn Kommúnistaflokks Kína, í kommúnunum, á vinnustöðunum og skólunum.
Flokksfélagar geta aðeins orðið þeir, sem hafa sýnt fórnfúsan vilja í öllu starfi og sýnt, að þeir eru góðir marxistar-lenínistar, reiðubúnir hvenær sem vera skal að gera allt fyrir sósíalismann, þeir sem gefast aldrei upp og leggja allt í sölurnar frekar en að gefast upp í baráttunni.

Kommúnistaflokkurinn er kjarni kínversku öreigastéttarinnar, þeir sem eru mest meðvitaðir um sögulegt hlutverk hennar og hafa mesta reynslu í baráttunni fyrir uppbyggingu sósíalismans. Kommúnistaflokkurinn er pólitískt framkvæmdavald kínversku öreiganna og leiðir baráttuna á öllum stigum þjóðfélagsins. Í flokknum eru 10 milljónir félaga og hver einasti Kínverji á samskipti við flokkinn og nýtur leiðsagnar hans daglega á einhvern hátt.

Alræði öreiganna í Kína þjónar tvenns konar hlutverki; annars vegar að halda niðri þeim borgaraöflum, sem enn eru að verki, og hins vegar að standa vörð gegn árásum heimsvaldasinna utan frá, hvorttveggja í þeim tilgangi að vernda og tryggja sósíalíska uppbyggingu landsins.

Það geysilega átak, sem kínverskir bræður okkar hafa gert til uppbyggingar lands síns og upprætingar launaþrældómsins, er leiðarljós annarra öreiga heimsins. Barátta þeirra fyrir uppbyggingu sósíalismans er um leið barátta fyrir sigri sósíalismans á Íslandi.

Með því að brjóta á bak aftur kúgunarvald kínversku borgarastéttarinnar hafa kínverskir öreigar og smábændur farið þá einu leið í stéttabaráttunni, sem þjónar sögulegu hlutverki öreigastéttarinnar.



I dag hafa endurskoðunarsinnuðu leiðtogarnir í Kreml breytt hinu sósíalíska ríki Lenins í þágu heimsvaldastefnunnar. En öreigar heimsins hafa reist sér nýtt virki: Alþýðulýðveldið Kína. Undir leiðsögn Kommúnistaflokksins og Mao Tsetungs hefur landið þróast í að verða blómstrandi sósíalískt ríki og er í dag traustur samherji öreiga heimsins, kúgaðs fólks hvarvetna og kúgaðra þjóða.







"Það er ósvíkjanleg alþjóðleg skylda kínversku þjóðarinnar að styðja fólkið í Viet Nam, Laos og Kambodíu í baráttu þeirra gegn árásum Bandaríkjanna og fyrir þjóðfrelsi þeirra"

(Úr yfirlýsingu 12. febrúar 1971 frá ríkis - stjórn Alþýðulýðveldisins Kína)

**sprengingar frá amerískum flugher og flota. Þannig er hægt að halda uppi flutningum frá Kína til fremstu víglínu í suðri.**

## Skemmdarverk sósíalheimsvaldasinnanna.

Í algerri mótsögn við Kína, sem sýnir okkur með aðstoð sinni við Víet Nam, alþjóðahyggju öreiganna í verki, eru aðgerðir sovézku sósíalheimsvaldasinnanna. Til þess að sýnast og þykjast vera gegn heimsvaldastefnu senda Sovétríkin hergögn og nauðþurftir til stríðandi þjóðar, en sýna svikulsemina í verki með því að senda ekki sitt nýjasta og bezta eins og Kínverjar gera. Verum minnug þess að 1960 gátu Rússar skotið niður U-2 flugvél í 20 þús. metra hæð. Varla hefur Rússum farið aftur á því sviði. Það er enginn vafi á því, að Rússar hafa yfir vopnum að ráða, sem hægt væri að skjóta með á flotastyrk USA, sem stöðugt liggur úti fyrir ströndum Víet Nam og eys yfir landið úr skotfærageymslum sínum. Það er heldur enginn vafi á því að það væri létt verk fyrir Rússa að slæða tundurduflin úr höfninni í Haiphong og annars staðar meðfram ströndunum, þar sem þau er að finna. Að Víetnamar geri sér fulla grein fyrir hlutverki sósíalheimsvaldasinnanna má sjá af tilvitnun þessari: "Smærri bátar smjúga milli skerjanna inn til hafna norðan við Haifong. Lengra í suðri, nálægt borginni Vinh, sigla kínversk skip til hafna og afferma, þrátt fyrir hótanir Ameríkana um að sökkva öllum skipum, sem brjóta siglingabannið. Á þetta er oft bent af Hanoi - um leið og þeir senda Rússum pílu fyrir að þeir reyna ekki hið minnsta til að brjóta siglingabannið á sama hátt.
Markmiðið með því að leggja út tundurduflin var margþætt: Það var bæði efnahagsleg og pólitísk kúgun. Einmitt sú staðreynd, að Rússarnir reyna ekki að komast inn til hafna var sigur fyrir Nixon og einnig það, að Rússarnir halda áfram prédikunum sínum yfir Norður-Víetnömum um að þeir verði að skilja og helzt viðurkenna friðarboð Nixons. Það er ein hlið þessa sorgarleiks, sem Víetnamar sjálfir vilja helzt ekkert tala um, jafnvel þótt það virðist gleðja þá, þegar óviðkomandi gagnrýna Rússa fyrir tvískinnungshátt í þessu máli. Það er eftirtektarvert hve mikill kuldi er í garð Rússa í Hanoi - rússneski sendiherrann hefur fengið auknefnið "nýi zarinn"." (Birtist í Dagens Nyheter 16/8 ´72, skrifað af blaðamanni þess í Víet Nam.)

Sósíalheimsvaldasinnarnir styðja ekki Víet Nam eins og þeir geta. Heldur reyna þeir að veikja baráttuna með því að senda ekki sín beztu vopn og gefast upp fyrir tundurduflum USA. Þeir reyna að fá Víetnama til þess að komast að hernaðarlegu samkomulagi á meðan stjórnmálalegu atriðunum um einingu Víet Nam þjóðarinnar er skotið á frest. Þetta myndi gefa USA möguleika til að halda áfram aðgerðum sínum til að koma í veg fyrir sjálfstæði og einingu Víet Nam á sama hátt og þeir gerðu eftir Genfarráðstefnuna 1954 og á sama hátt og í Kóreu, þar sem vopnahlé var samið án tryggingar fyrir stjórnmálalegu lausninni og einingu án afskipta utanaðkomandi aðila.

Víetnamar hafa lært af sögunni og munu aldrei láta þvinga sig til að taka þess konar boði, sem myndi leiða til taps og sem táknar að hernaðaráætlun Nixons um að styrkja suður-víetnamska heraflann næði fram að ganga og myndi þannig tákna enn meiri þjáningar í framtíðinni. Þess vegna er tillaga bráðabirgðastjórnar sameinaðs Víet Nams, í sjö liðum, þannig útbúin að hernaðarleg og stjórnmálaleg atriði verður að semja um samtímis við samningaborðið í París.

Ekki láta þeir sig heldur blekkjast af tillögu George Bush um að fá Sameinuðu Þjóðirnar til að skipta sér af stríðinu og leysa pólitísku deiluna í Indókína. Þegar þessi tillaga var borinn fram hjá Sameinuðu Þjóðunum í maí benti kínverski sendiherrann hjá S.Þ. á að þessari tillögu væri ætlað að bjarga málunum fyrir Nixon. Fulltrúi Sovétríkjanna þagði.

Til þess að sjá hver meiningin með þessari tillögu í raun og sannleika var má benda á hvernig USA notaði sér fána Sameinuðu Þjóðanna í Kóreu til að fullnægja ofstæki sínu, eftir að Rússar og Kínverjar höfðu dregið heri sína frá Kóreu.

# Sósíalfasisminn og fasisminn

## eru höfuðstoðirnar í ríkisvaldi fjármalaauðvaldsins!

Á tímaskeiði hinnar rotnandi heimsvaldastefnu er fasíska hreyfingin, sósíalfasisminn og fasisminn, höfuðstoð hins borgaralega ríkisvalds.
Íslenzka auðvaldið hefur þróast fram á sitt rotnandi stig og er ríkið því orðið ríki fjármálaauðvaldsins. Þar af leiðandi á íslenzka ríkisvaldið sínar höfuðstoðir: Það er ekkert launungarmál, að stjórnspeki Alþýðubandalagsins er stéttasamvinnuhugmyndafræði sósíalfasistanna og að Hannibalistarnir eru tindildátar með mússólíniraddir. Það hefur heldur enginn stéttvís Íslendingur gleymt fasískum bolabrögðum Hriflujónasar og Framsóknarflokksins.

Langt er um liðið síðan marxisminn sýndi og sannaði, að ríkið er og verður ævinlega ríkisvald einnar ákveðinnar stéttar til að kúga aðrar stéttir, pólitísk yfirbygging, sem er reist á ákveðnum efnahagslegum grunni.

Þekkingin um stéttabaráttuna og hlutverk ríkisins gerði Marx kleyft að sýna fram á, að öreigarnir verða að brjóta ríki borgaranna í rústir og reisa sitt eigið til að geta byggt sósíalismann. Reynslan frá Parísarkommúnunni varð dýrkeypt sönnun á, að fræðikenning Marx um alræði öreiganna er fullkomlega rökföst. Hann sagði sjálfur, að það eina algjörlega nýja, sem hann hefði sýnt fram á með kenningum sínum, væri einmitt sannleikurinn um skilyrðislausa nauðsyn alræðis öreiganna fyrir uppbyggingu sósíalismans.

### Þróun borgaralega ríkisvaldsins.

Á tímum heimsvaldastefnunnar verða móthverfur kapítalismans sífellt skarpari og andstæðari. Þá hefur öllum heiminum verið skipt upp í markaði og verður því auðvaldið að herða þrælatökin á gömlu mörkuðunum. Þróunin leiðir til, að auðvaldið fær tvö höfuðverkefni að glíma við: Annars vegar að vinna nýja markaði úr höndum annarra kapítalista með styrjöld og hins vegar að auka arðránið og kúgunina á verkalýðnum í eigin landi með því að setja verkalýðshreyfinguna í gapastokkinn.

Til þess að leysa þessi verkefni verður fjármálaauðvaldið að styrkja allsherjar vopn sitt: RÍKISVALDIÐ.

Lenín sá fyrir þá þróun, sem verða mundi. Það var þegar 1916, að hann benti á, að það mundi ekki verða "silakepparlega næturvarðarríkið" enska, sem ætti framtíðina fyrir sér, heldur hið hálflénska og íhaldsama ríkisauðvald af Bismarksgerðinni.

### Íslenzka ríkið er ríki fjármálaauðvaldsins.

Þróun íslenzka auðvaldsins gekk hröðum skrefum eftir 1918 og um 1930 hafði auðvaldið komizt á sitt æðsta og rotnandi stig, stig heimsvaldastefnunnar og fjármálaauðvaldsins. Einn af dugmestu hugmyndasmiðum borgarastéttarinnar var fyrirrennari sósíalfasistanna, Jónas frá Hriflu. Einar Olgeirsson segir frá afrekum hans í bæklingnum: "Efling kommúnismans og andóf Jónasar frá Hriflu". Þar segir:

"Lýðræðið á Íslandi 1927-´31 afhjúpaði sig einmitt undir stjórn ´umbótaflokkanna´ og ægisskildi J. J. sem alræði banka- og ríkisauðvaldsins, - sem nýtt og hærra stig auðvaldskúgunarinnar. Banka- og ríkisvaldið samlagaðist smámsaman stórútgerðarauðvaldi Rvíkur - og hin fullkomna pólitíska mynd þeirrar samsteypu varð einmitt samsteypustjórnin, sem mynduð var 1932, og fyrir hana hafði J. J. einmitt rutt brautina svo furðu vel og meira að segja lagt að nokkru til kenninganna, sem fjármálaauðvaldið (þ. e. banka- og stórútgerðarauðvaldið sameinað) reynir að fegra sig með. En sú kenning er aðallega ´samvinnan´ sem samsteypa stórframleiðandanna - eins og hún birtist sérstaklega áþreifanlega í saltfiskhringnum nú og síldarhringnum áður." (bls. 99).

Það má ekki gleyma Alþýðuflokknum, þegar fjallað er um uppruna sósíalfasismans á Íslandi. Á árunum 1927-´30 tók Alþýðuflokkurinn virkan þátt í að endurbæta auðvaldið með samvinnu við Framsóknarflokkinn, eða réttar sagt undir handleiðslu Framsóknar. Þeir stefndu að því öllum árum að verkalýðsstéttin sem heild léti alla stéttabaráttu niður falla og gengi í samvinnu við borgarastéttina. Alþýðuflokkurinn stakk þar að auki þeim spámannlegu tilmælum að kommúnistaflokknum, að hann skyldi lagður niður og að kommúnistarnir skyldu hætta að gagnrýna kratana. Brynjólfur Bjarnason dró upp ágæta mynd af hinum sósíalfasíska krataflokki í bæklingnum "Samfylking - þrátt fyrir allt". Við skulum athuga stutta tilvitnun í bæklinginn, sem einnig er framúrskarandi framtíðarmynd af Alþýðubandalaginu. :

"Nú telja sósíaldemokratar það ekki markmið sitt að vinna að falli auðvaldsskipulagsins, með því að kollvarpa því á byltingarsinnaðan hátt. Grundvallarkenning hinnar sósíaldemokratisku endurbótastefnu er að ´endurbæta´ auðvaldsskipulagið og lækna það. ´Sósíalismi´ endurbótastefnunnar er sama sem ´endurbætt´ auðvaldsskipulag. Sósíaldemokratisku foringjarnir eru svo nátengdir auðvaldsskipulaginu, að líf þeirra hangir á sama þræði. Bankastjórastöðum og framkvæmdastjórastöðum gegna þeir með sömu húsbóndahollustunni og aðrir auðvaldsþjónar.
Það liggur því í augum uppi, að á dauðastundum auðvaldsskipulagsins geta sósíaldemokratar ekki barist gegn árásum auðvaldsins á lífskjör verkalýðsins né tekið þátt í neinni raunverulegri endurbótastarfsemi á högum hinnar vinnandi stéttar, því að allt slíkt stefnir tilveru auðvaldsskipulagsins í voða. Öll slík endurbótastarfsemi kostar stéttabaráttu, sem hlýtur að öðlast byltingarsinnað eðli og innihald...
...ÞESS VEGNA ER HIN BORGARALEGA LÝÐRÆÐISSTEFNA GJALDÞROTA, SÓSÍAL-DEMOKRATAR HAFA ÞVÍ BREYTZT Í SÓSÍAL-FASISTA. (Ef til vill þætti sumum alþýðlegra að kalla þá krata-fasista).
ÞEIR ERU ÞVÍ EKKI LENGUR RÉTTNEFNDIR ´LÝÐRÆÐIS-JAFNAÐARMENN´- HELDUR FASISTISKIR ´JAFNAÐARMENN´.
OG VEGNA ÞESS AÐ SÓSÍALDEMOKRATISKU FORINGJARNIR HAFA ÞÝÐINGARMESTU SAMTÖK VERKALÝÐSINS ENNÞÁ UNDIR ÁHRIFUM SÍNUM OG STJÓRN, ERU ÞEIR HÖFUÐSTOÐ BURGEISASTÉTTARINNAR.
(Okkar undirstrikun.)

### Frá kommúnistaflokki til sósíalfasisma.

Kratarnir lágu víða í leyni bíðandi síns vitjunartíma. Ein allra lævísasta sósíalfasistaspíran allt frá upphafi verkalýðsbaráttunnar er Einar Olgeirsson. Hann vann gegn því, að kommúnistaflokkurinn yrði stofnaður og reyndi allt, sem hann gat, til að beina vinstri öflunum inn í Alþýðuflokkinn. En er flokkurinn var stofnaður sá hann þann kostinn vænstan að reyna að hreiðra um sig innan flokksins. Það var í fleiri skipti, sem það stóð til að reka Einar úr flokknum fyrir sósíaldemókratisma, en því miður varð ekki af þeirri snjöllu ráðagerð. Honum tókst síðan með hjálp annarra vondra manna að verða ofan á í baráttunni innan flokksins og var flokkurinn fljótlega lagður niður eftir það. Sósíalistaflokkurinn - sameiningarflokkur alþýðu var fyrsta stóra undirbúningsskrefið í átt til sósíalfasismans og var þátttakan í Nýsköpunarstjórninni fyrsti prófsteinninn. Einar & Co. lofuðu tveggja ára vinnufriði, ef sósíalfasisminn fengi að vera með í að byggja upp og styrkja borgarastéttina efnahagslega og pólitískt. :

"Sósíalistaflokkurinn er reiðubúinn til þess jafnframt, í sambandi við slíka stjórnarmyndun, að beita áhrifum sínum til þess að frjálsir samningar takist á milli verkamanna og atvinnurekenda um grunnkaup, t. d. til næstu tveggja ára."
"Ef vér hinsvegar förum nú að berjast af öllum mætti innbyrðis, ef allt á að loga í deilum milli verkamanna og atvinnurekenda...þá verður lítið sem ekkert af þessu framkvæmt nú á næstunni..."

Og stéttasamvinnuhugmyndafræðin fékk flugfima vængi úr munni Einars á þingpöllunum.

### Sósíalfasisminn og fasisminn nærast á þekkingarskorti alþýðunnar.

Borgarastéttin kýs ævinlega að ríkja með sem allra lýðræðislegasta yfirbragði, að sveipa kúgunina og arðránið í borgaralega lýðræðisblæju. Þess vegna er sósíalfasisminn betri stoð fyrir auðvaldið er til lengdar lætur en fasisminn, en allra bezta þjónustu við auðvaldið gefur fasíska hreyfingin með samvinnu hinna tveggja arma hennar - fasismanum og sósíalfasismanum.

Fasíska hreyfingin byggir fylgi sitt á ómeðvituðum hópum smáborgarastéttarinnar, millihópanna og verkalýðsins. Þess vegna var það nauðsynlegt fyrir sósíalfasistana E. & Co. að vinna markvisst gegn kommúnismanum með því að leggja niður kommúnistaflokkinn, sem var lífegg hins stéttvísa starfs, er frumkvöðlar kommúnistaflokksins höfðu skapað. Kommúnistaflokkurinn var sá vegvísir, sem gat leitt öreigastéttina í hinni byltingarsinnuðu baráttu gegn borgarastéttinni. Þar af leiðandi varð það að verða fyrsta verk hinna verðandi sósíalfasista að leggja flokkinn niður til að hindra þekkingaröflun öreigastéttarinnar um auðvaldsþjóðfélagið og sögulegt hlutverk sitt. Júdasarverk sitt unnu sósíalfasistarnir með víghreif slagorð gegn fasismanum á vörunum! Kærleikurinn við auðvaldið er þeim allt og starfið fyrir öreigastéttina ekkert.

### Þursinn og hans eigin spegilmynd.

Það er ekkert launungarmál, að sósíalfasisminn og fasisminn bera hvors annars svipmynd bæði hvað snertir hátterni og takmark. Báðir hafa þeir það sem aðalhlutverk að bæla niður stéttabaráttuna og eru skilgetin afkvæmi stéttasamvinnupólitíkur borgarastéttarinnar. Bæði sósíalfasisminn og fasisminn leggja allt á vogarskálarnar til að styrkja ríki borgaranna með svokölluðum ´áætlunarbúskap, sem eingöngu er í þágu fjármálaauðvaldsins. Tvíburarnir berjast einnig ötullega fyrir því að beygja verkalýðsfélögin undir ríkisvaldið til að geta gert stéttasamvinnuna að stjórnskipaðri stefnu fyrir fjármálaauðvaldið.

Mismunurinn á hinum tveim örmum fasísku hreyfingarinnar er stéttarlegs eðlis. Það er mjög mikilvægt að gera sér fulla grein fyrir muninum á fasismanum og sósíalfasismanum: Í fyrsta lagi greinir þá að, hvað snertir starfssvið og aðferðir og í öðru lagi er sjálf valdastaða þeirra ólík. Mismunurinn byggist á mismunandi þjóðfélagsgrundvelli, sem fasisminn og sósíalfasisminn byggja á:

Fasisminn byggir á afturhaldssömum hópum þjóðfélagsins, sem létt er að beizla fyrir kúgunarplóg íhaldsins, og geta verið herskáir dreggjahundar vegna forheimsku og þjóðfélagslegrar niðurlægingar.

Sósíalfasisminn byggir hins vegar á verkalýðsheldrimönnunum og þjóðfélags-endurbótahefð. Þar af leiðandi er sósíalfasisminn háður því, að borgarastéttin leggi til alls kyns yfirborðsumbætur og tilhliðranir til að geta haldið fylgi sínu meðal verkalýðsstéttarinnar.

Vegna þessa munar bera fasisminn og sósíalfasisminn ekki sömu grímu í stéttabaráttunni. Fasisminn starfar sem stormsveit, ávallt reiðubúinn til árásar gegn öllum framsýnum öflum.

Sósíalfasisminn hefur hins vegar alls ekki sama hreyfanleika fyrir afturhaldið, þar sem hann er háður fylgi úr verkalýðsstéttinni. Þar af leiðandi heldur sósíalfasisminn sig aðeins í humátt á eftir fasismanum, þegar það á við, eða þá að hann ryður brautina, þegar fasisminn er síður "viðeigandi".

Þannig eru tvíburarnir báðir ómissandi fyrir borgarastéttina og mynda því sameiginlega tvöfeldnistaktík af nýrri gerð: Annars vegar er sósíalfasisminn, sem lofar verkalýðnum gulli og grænum skógum á tímum kapítalismans til að hindra öreigana frá að hefja byltingarsinnaða baráttu. Hins vegar er fasisminn, sem sópar með hryðjuverkum út úr hverju skoti, þar sem sósíalfasisminn nær ekki til.

## Úr munni Sósíalfasistanna:

...EN BYLTINGARKENNDASTA LAGASETNING OKKAR, LAGASETNING, SEM SKIPAR RÚM Í MANNKYNSSÖGUNNI, ER SÚ SEM FJALLAR UM STJÓRNSKIPULAG Á HEILDARSAMNINGUM VIÐ VERKALÝÐSFÉLÖGIN. MEÐ ÞESSUM LÖGUM HEFUR VERIÐ ENDANLEGA GENGIÐ FRÁ LÝÐRÆÐIS- OG FRJÁLSHYGGJURÍKINU, SEM GAT HVORKI SAGT AF EÐA Á Í SAMBANDI VIÐ VANDAMÁLIÐ MEÐ VERKALÝÐSFÉLÖGIN.
VIÐ HÖFUM SKAPAÐ KORPORATÍVRÍKIÐ (STÉTTASAMVINNURÍKIÐ)... VIÐ HÖFUM TEKIZT Á VIÐ EITT AF VIÐKVÆMUSTU VANDAMÁLUM NÚTÍMA ÞJÓÐFÉLAGS. ÞETTA ER OG VERÐUR ÁVALLT TALIÐ FASISTABYLTINGUNNI TIL ÁGÆTIS. (Mussolíni, 1926.)

Stéttasamvinna og sterkt ríki eru kjörorð fasísku hreyfingarinnar. Grundvallarmunurinn á fasismanum og sósíalfasismanum er sá, að sósíalfasisminn veitir borgarastéttinni stuðning frá verkalýðsstéttinni. Sá stuðningur er borgarastéttinni ómetanlegur, því að sósíalfasisminn brýtur á bak aftur alla byltingarstarfsemi verkalýðsstéttarinnar. Fasisminn byggir hins vegar stéttarfylgi sitt á vissum hópum smáborgarastéttarinnar og millihópunum. Í dag er það sósíalfasisminn, sem er höfuðóvinur kommúnismans á Íslandi. Þar af leiðandi verðum við kommúnistar að leggja ríka áherzlu á að afhjúpa stéttasamvinnueðli sósíalfasismans, sem kemur fram í hástemmdum loforðum til verkalýðsstéttarinnar og algerri undirgefni við borgarastéttina. Þrátt fyrir það, að sósíalfasisminn sé höfuðóvinurinn, megum við ekki loka augunum fyrir hættunni af fasismanum, sem hreiðrar um sig og grær í skugga sósíalfasismans.

Lúðvík Jósepsson í sjónvarpi 28. júní, 1972:

"En í þeim efnum, þá erum við sammála við Gylfi Gíslason, að eitt þýðingarmesta atriðið... er, að nú takist fullt samstarf á milli ríkisvaldsins og launþegasamtakanna í landinu og atvinnurekenda um það að reyna að koma í veg fyrir frekari verðlagshækkanir."

Eitt af einkennum sósíalfasismans er lýðskrum um, að stéttasamvinnan sé til hagsbóta fyrir verkalýðinn. Það hefur aldrei gerzt í sögu auðvaldsins, að verðlagsstöðvanir hafi verið gerðar nema til skamms tíma og þá ýmist beint til að styrkja auðvaldið eða í áróðursskyni.

Hannibal Valdimarsson á þingi ASÍ 1960:

"Fyrra tímabilið ríkti allnáið samstarf milli ríkisvaldsins og verkalýðssamtakanna, samvinnuhreyfingar og bændasamtaka. Hefur það löngum verið sannfæring mín, að slíkt samstarf launþegastéttanna og fólksins í sveitunum, bændasamtaka, samvinnuhreyfingar og verkalýðssamtaka í vinsamlegu samstarfi við ríkisvaldið, sé það fyrirkomulag í þjóðmálum, sem bezt geti þokað áfram málum vinnandi fólks bæði efnahagslega og menningarlega og hljóti einnig að verða þjóðarheildinni hollast, þegar til lengdar lætur."

Lýðskrum sósíalfasistanna er með ýmsu móti. Hannibal er örverpi meðal sósíalfasistanna, þar sem alltaf er grunnt á fasismanum hjá honum. Hann er ófeiminn við að lýsa raunverulegum árangri af stéttasamvinnunni á vegum vinstri stjórnarinnar 1956-58: "En á sama tíma óx framleiðsluverðmæti íslenzkra útflutningsatvinnuvega úr 700 milljónum í 1100 milljónir í lok tímabilsins."
Og geti sér hver til, hvar milljónirnar hafi hafnað!

Einar Olgeirsson í Rétti 1969:

"Átta þessir atvinnurekendur sig nú í tíma, hver voði þeim og þjóðlegum atvinnuvegum er búinn af helstefnu erlends auðvalds, - og taka höndum saman við alþýðu manna í tíma um að nýskapa og skipuleggja íslenzkt atvinnulíf til sjálfstæðrar, stórhuga þróunar?"

Fagmaðurinn meðal sósíalfasistanna breiðir út þá villukenningu, að þjóðin sé kúguð af erlendu auðvaldi og betlar síðan til íslenzka auðvaldsins og bendir því á leið til "sjálfstæðrar og stórhuga" arðránsþróunar.

Ragnar Arnalds í Þjóðviljanum 13. ágúst, 1972:

"Yfirleitt er eðlilegt, að þeir séu helzt með í ráðum, sem mestra hagsmuna hafa að gæta hverju sinni. Áhrif verksmiðjueigenda á rekstur stofnunarinnar eru því sjálfsögð. En hér er um að ræða, að ríkisvaldið leggur fram allt fjármagnið, á annað hundrað milljónir króna, og ríkið hlýtur því að verða að hafa fullkomið eftirlit með því, að þessi mikla fjárfúlga af almannafé sé notuð á eðlilegan og skynsamlegan hátt... En eftir 5 ár, þegar stofnunin á örugglega að geta staðið á eigin fótum, fá framleiðendur rétt til að tilnefna meirihluta stjórnar."

Ungu sósíalfasistarnir átta sig ekki á því, að þjónustuhlutverk Alþýðubandalagsins við auðvaldið byggist á ítökum hjá verkalýðsstéttinni vegna sósíalískrar fortíðar þess. Þess vegna mun einfeldnisleg hreinskilni þeirra verða þeim banabiti í hálsi, þegar þeir afhjúpa hlutverk sitt fyrir öreigastéttinni. Ragnar Arnalds talar: "Eftir stofnfund Sölustofnunar lagmetisiðnaðarins fyrir fáum dögum kom til mín ungur atvinnurekandi og Sjálfstæðismaður og sagði glottandi: ´Þið takið upp merkið, þar sem hinir guggnuðu. Og það var einmitt þetta, sem gerðist." (!!!)

Magnús Kjartansson á ársþingi Félags íslenzkra iðnrekenda 21. apríl, 1972:

"Einnig ég beið þess með nokkurri óvissu, hvernig til myndi takast um samskiptin við ykkur og samtök ykkar. Af þeirri samvinnu er nú komin níu mánaða reynsla, og ég sé ástæðu til að þakka forystumönnum iðnaðarins fyrir góð samskipti á þessu tímabili."

Níu mánuðir og barnið er fætt: ljótur sonur og ófrýnilegur og kallast korpóratívríkið!
(Allar undirstr. okkar.)



Magnús Kjartansson við háborðið í árshófi Félags íslenzkra iðnrekenda. Hafi einhverjir beðið "þess með nokkurri óvissu hvernig til myndi takast um samskiptin" milli sósíalfasistanna og auðvaldsins, þegar hinir fyrrnefndu tóku að sér stjórn ríkisvaldsins fyrir þá síðarnefndu, þá þarf enginn lengur að ganga að því gruflandi, að þjónarnir voru auðsveipir og brosmildir, þegar þeir settust að arðránskrásunum með herrum sínum.

# USA - heimsvaldastefnan

Heimsvaldastefnan er hæsta stig auðvaldsins, einokunarstig þess. Það sem einkennir heimsvaldastefnuna er fjármagnsútflutningur, en það sem einkenndi "gamla auðvaldið" var vöruútflutningur og frjáls samkeppni. Auðugu löndin hagnýta gróða sinn til að fjárfesta í löndum, sem skammt eru á veg kominn. Þar eru gróðahorfur miklar sökum lítils innlends fjármagns, ódýrs jarðnæðis, lágra launa og ódýrs hráefnis. Helztu auðvaldsríki jarðarinnar hafa lokið skiptingu heimsins á milli sín með þeim afleiðingum, að alþjóðlegir einokunarhringir hafa myndast, sem ráða úrslitum í efnahagslífinu.

USA hafði mestan hagnað af seinni heimsstyrjöldinni af öllum þeim ríkjum, sem tóku þátt í henni. Í lok hennar framleiddi USA meira en helming allrar verksmiðjuframleiðslu í heiminum og tókst fljótlega að ná sér í margar nýlendur með endurnýlendustefnunni. Meðan heimsvaldasinnuðu löndin í Evrópu voru í rústum eftir styrjöldina tókst USA að smeygja sér í forystusæti meðal þeirra. Ástæðan fyrir því var sú, að stórir markaðir hinna stríðshrjáðu landssvæða og þjóða stóðu opnir fyrir vöruflóði og auðmagni (Marshall-hjálpin) frá USA. Sökum framleiðsluhátta heimsvaldasinnaðra ríkja eru styrjaldir nauðsynlegar til að forðast offramleiðslukreppur.
Í stríði er framin gjöreyðing á framleiðsluöflunum á takmarkalausan hátt, er leiðir til gífurlegrar eyðileggingar, sem er grundvöllur fyrir vöxt og viðgang auðvaldsins, með auknu arðráni og kúgun. Þannig eru styrjaldir eðlilegt ástand á tímum heimsvaldastefnunnar.

Heimsvaldastefnan kallar fram ferns konar stríð:

1. Styrjaldir milli heimsvaldalandanna. Höfuðorsök þeirra er hin ójafna þróun auð-valdsins. Þessi stríð eru uppskiptastríð um lönd og markaði. Þannig stríð voru bæði 1. og 2. heimsstyrjöldin.
2. Nýlendustríð og árásarstríð heimsvaldastefnunnar. Dæmi: Indókínastríðið og árás USA á Guatemala 1954.
3. Árásarstríð heimsvaldastefnunnar gegn sósíalismanum. Dæmi: Árás herja Hitlers á Ráðstjórnarríkin.
4. Innanríkisstríð í heimsvaldalöndunum, þ.e. bylting til að kollvarpa auðvaldsskipulaginu.

Ein aðferð heimsvaldastefnunnar til að dulbúa sig er endurnýlendustefnan. Hún lýsir sér í því, að heimsvaldasinnuð ríki arðræna og kúga öreiga annarra landa gegnum innlenda leppstjórn. Þetta iðkar USA mjög í S.-Ameríku. Í lok seinni heimsstyrjaldarinnar var svo komið, að nálega allri rómönsku Ameríku var stjórnað af bandarískum auðhringum gegnum einræðisherra eða herforingjaklíkur. Meira en 50% af þjóðararðinum fór óskertur til USA. Í Guatemala á bandaríski auðhringurinn United Fruit Co. mjög stóran hluta ræktanlegs lands, og það var að undirlagi hans, sem CIA steypti stjórn Jacobo Arbenez 1954, en hann hafði þjóðnýtt allar eigur U. F. Co. þar í landi. Endurnýlendustefnan er versta kúgunar- og arðránsafbrigði heimsvaldastefnunnar, sem til er. Hún eykur arðránið sífellt og mismunurinn milli auðlegðar heimsvaldalandanna og fátæktar kúguðu þjóðanna vex stöðugt.

Árið 1965 flutti USA út 70% af öllum auðmagnsútflutningi veraldar, og í dag hafa þeir yfirráð yfir 60% allra auðlinda veraldar og þó eru íbúar USA aðeins 6% jarðarbúa. Heimsveldi sitt verja þeir með 3,5 milljón manna her, sem er dreifður á 3600 herstöðvar í 64 löndum. En það er fráleitt að hugsa sér að þeir haldi þessum völdum að eilífu, það er óhugsandi vegna hinnar ójöfnu þróunar auðvaldsins. Önnur auðvaldslönd eru sífellt að reyna að slíta sig meira frá Bandaríkjunum og keppa við þau í sívaxandi mæli um markaði og áhrifasvæði. England er í þann mund að ganga í EBE, V-Þjóðverjar eru farnir að takmarka bandaríska fjárfestingu í landi sínu og Japan tekur fleiri markaði frá þeim með hverju ári sem líður. Þessar mótsetningar hafa skerpzt við að ný offramleiðslukreppa bíður handan við hornið. Tala atvinnulausra í USA eykst daglega (um 7 milljónir atvinnulausra í dag) og lífskjör almennings fara versnandi. Gengisóvissan og tollastríðið eru m.a. tákn um yfirvofandi kreppu.

Ástandinu í heiminum í dag má að mörgu leyti líkja við ástandið í heiminum fyrir seinni heimsstyrjöldina. Þá bjargaði auðvaldið sér frá efnahagslegu hruni með því að efna til styrjaldar, uppskiptastríðs. Það er hlutverk kommúnista að reyna að hindra, að stórstyrjöld brjótist út. Hættan á þriðju heimsstyrjöldinni fer eftir því hvernig mikilvægustu móthverfurnar í heiminum í dag þróast, og þá fyrst og fremst höfuðmóthverfan, sem er á milli heimsvaldalandanna og kúguðu þjóðanna, en hún kemur bezt fram í Indókínastríðinu.
Með öðrum orðum, heimsfriðurinn er undir því kominn hvernig stríðinu í Víet Nam lyktar. Heimsvaldasinnarnir skoða hug sinn vel áður en þeir leggja út í stríð við 800 milljónir Kínverja, þegar þeir hafa verið sigraðir af 30 milljónum Víetnama.

Meðan friður helzt, geta sósíalísku löndin eflt varnir sínar, kommúnistar í heimsvaldalöndunum fá tækifæri til að útbreiða marxismann-lenínismann, hina byltingarsinnuðu fræðikenningu. Sósíalísku byltingarstríðin eru framsýn stríð, því þau frelsa öreigastéttina undan launavinnuþrælkun og kúgun. Í samanburði við aðferðir heimsvaldalandanna til að viðhalda auðvaldsþjóðfélaginu er sósíalísk valdbylting friðsamasta stríðsaðgerð, sem til er.



## Sigrar ITT í forsetakosningunum?

Forsetakosningunum í Bandaríkjunum hefur alltaf verið veitt alveg sérstök athygli í fjölmiðlum borgaranna. Þeir gefa ætíð í skyn, að kosningar á framkvæmdarstjóra ríkisvaldsins (þ.e. forsetanum) séu komnar undir óskum og vilja alþýðunnar, að kosningar í kapítalísku ríki séu bezta trygging fyrir hinu "hreina lýðræði".
Hvað varðar sjálft ríkið, þá gefa þeir í skyn, að það sé ríki allra stétta, en ekki eingöngu tæki hinnar ríkjandi stéttar til að gæta stéttarhagsmuna sinna. Þetta verður okkur ljósara, ef við lítum á starfsferil framkvæmdarstjóranna: Hvort sem um er að ræða demókrata eða repúblikana, þá hefur hinn rauði þráður verið árásarstríð, kynþátta- og stéttakúgun, þrátt fyrir göfug orð.

Í bandarísku stjórnmálalífi eru höfuðaðferðirnar mútur, brask og prettir óvenju opinskáar miðað við í Evrópu, þar sem þessar aðferðir eru óbeinni. Ástæðan er sú, að bandarísku verkalýðsstéttinni hefur verið haldið niðri með meiri ofsa og skothörku en þekkist víðast hvar annars staðar. Kosningaþátttakan er lág og venjulegast um 50% eða undir 60%, þrátt fyrir all-yfirþyrmandi kosningaherferðir.

Nú eru forsetakosningar aftur efst á baugi og borgarablöðin velta vöngum yfir sigurmöguleikum McGoverns og Nixons. Þjóðviljinn heldur greinilega með McGovern og gefur honum yfirbragð róttæks og framsýns baráttumanns. Hinn göfugi McGovern lofar (eins og aðrir frambjóðendur á undan honum) friði í Víet Nam og í innanríkismálum að stöðva verðbólguna og afnema fjöldaatvinnuleysið. - Af hverju er Þjóðviljinn svona upprifinn og ánægður með McGovern?
Jú, hann (Govern) fellur inn í óskamyndina og blekkingarvefinn um hinn friðsamlega og lýðræðislega kapítalisma. Það er nefnilega líklegast, að ef McGovern yrði forseti, þá léti hann Bandaríkin hætta afskiptum af Víet Nam og viðurkenndi þannig endanlega ósigur USA-heimsvaldastefnunnar fyrir alþýðustríðinu. En gerði McGovern það vegna friðelsku, mannkærleika og tilfinningu fyrir lýðræði? Til að svara þessari spurningu skulum við skrapa svolítið yfirborð forsetaefnisins og sjá hvað er undir:

- Mc.G. efast ekki um réttmæti þess að kapítalistar auðgi sig á vinnu verkalýðsstéttarinnar og arðræni og kúgi aðrar þjóðir.
- Mc.G. studdi til skamms tíma og af heilum hug árásarstríð USA í Víet Nam.
- Mc.G. vill styrkja að miklum mun brúarsporð USA-heimsvaldastefnunnar fyrir botni Miðjarðarhafs: Síonistaríkið Ísrael.
- Mc.G. vill styrkja að miklum mun NATO (með aukinn ábyrgð hvers lands, þrátt fyrir fækkun USA-hermanna í Evrópu).
- Mc.G. vill nánari samvinnu við USSR.
- Mc.G. er studdur af einokunarkapítalistum.

Þeir, sem vilja hafa McGovern fyrir forseta, eru þeir hópar heimsvaldasinna, sem ekki græða á árásarstríðinu í Víet Nam (t.d. fjölmiðla- og neyzluvörukapítalistar) ásamt þeim hópum heimsvaldasinna, sem vilja bjarga því, sem bjargað verður, þ.e.a.s. þeir, sem hafa áttað sig á því, að til að vinna stríðið í Víet Nam yrði bókstaflega að má land og þjóð af yfirborði jarðar, en það er ekki hægt og þá vilja þeir nota sér heimsálitið og almenna óánægju heima fyrir til að sleppa út úr Víet Nam með friðaryfirbragðið að viðspyrnu til enn frekari kúgunar og arðráns í öðrum heimshlutum.

Repúblikanar hafa reiknað út að kosningarherferð þeirra muni kosta 35 milljónir dollara og það er ekki neitt smælki, en ekki verða vandræðin stór að safna þessu saman. Þeir, sem hafa Nixon sem fulltrúa sinn, eru Rockefeller, ITT o.s.frv., þ.e.a.s. hinir risavöxnu einokunarkapítalistar, sem þurfa óskipta hjálp ríkisvaldsins til að geta kreist miskunnarlaust hámarksgróða úr hinum vinnandi stéttum heima fyrir og í kúguðu löndunum.

Spurningin um hver sigri í forsetakosningunum er ekki um það hvort "skynsemi, mannúð og lýðræði" (McGovern) verði sigrað af "hálfbrjáluðum stríðsæsingamanni" (Nixon), heldur er um að ræða hvort ITT eða aðrar grúppur innan hinnar stríðsbrjáluðu heimsvaldastéttar fái að ráða framkvæmdarstjórann í ríkisbákn stéttarinnar.

## USA: "Dýrðarríki„ kapitalistanna - hungur og neyð fyrir verkalýðinn

USA er þjóðfélag í kreppu, fjárhagslega og pólitískt. USA er heimsveldi á fallanda fæti, þjóðfélag, sem rotnar í sundur að innan. Kreppa Bandaríkjanna er kreppa auðvaldsins og rotnunin boðar það, sem mun verða örlög annarra auðvaldsríkja.
USA er háþróaðasta auðvaldsríki heims. Ríkasta þjóð heims. Landið, þar sem meðaltekjurnar liggja í 7000 dollurum, þar sem hver fjölskylda á einbýlishús með sundlaug og tveim bílum í bílskúrnum. - Þessi myndræna lýsing er ekki gerð út í bláinn. Borgarastéttin um allan heim þarfnast hennar til sönnunar á yfirburðum auðvaldsþjóðfélagsins. - "Sjáið bara USA, þetta er það, sem við leitumst eftir!"

Já, nú skulum við líta nánar á USA. Á sinn hátt er það rétt, að við munum sjá framtíðarmynd, en ekki þá, sem borgararnir lýsa. USA er vissulega háþróaðasta auðvaldsríki heims. En þróun auðvaldsins leiðir til lúxus og bílífis fyrir fáeina menn. Hinna bíður neyð, þjáningar og hrun þjóðfélagstengslanna. Þetta er hin sanna mynd af USA.

Við skulum taka Seattle sem lifandi dæmi. Þetta er dæmigerð iðnaðarborg, þar sem meiri hluti íbúanna eru verkamenn. Þar eru pappírsverksmiðjur, skipasmíðastöðvar og ýmiss konar smærri iðnaður. Stærsti vinnustaðurinn er samt Boeing-flugvélaverksmiðjurnar. Þar eru framleiddar Júmbó-risaþoturnar og B-52, sem ausa sprengjum yfir Víet Nam. - Núna er milli 12% og 17% af íbúum Seattle atvinnulausir. Í miðbænum, þar sem svertingjarnir búa eru tölurnar milli 35% og 50%.

1968 voru 106 þúsund verkamenn ráðnir við Boeing verksmiðjurnar. Frá þeim tíma hefur 67 þúsund verið sagt upp starfi. Fjöldi vinnuplássa í Seattle minnkaði milli 1968 og 1971 um 38,7%. Í lok árs 1971 hafði helmingur allra atvinnulausra kvittað út þrítugasta og þar með síðustu atvinnuleysisvikulaunin. Fjöldi atvinnulausra eykst um 9000 á mánuði og núna í desember munu síðustu peningarnir renna úr atvinnuleysissjóðnum.

Hvað verður nú um atvinnulausan verkamann í Seattle, þegar hann fær ekki lengur sína 72 dollara á viku úr atvinnuleysissjóðnum?
Jú, ef hann á barn undir 18 ára aldri getur hann fengið sósíalhjálp. Fjöldi slíkra hjálparþega jókst um 44% frá maí 1968 til maí 1971 í Seattle. En því er nú bara þannig varið með sósíalhjálpina, að hana getur maður ekki fengið eigi maður einhverjar eignir, t.d. hús eða bíl. Flestir reyna náttúrulega að halda í afborgunareignir sínar eins lengi og hægt er. Hvað varðar bílinn, þá er hann nauðsynlegur í landi, þar sem varla finnst vottur um almenningsvagna.

En fljótlega verður nauðsynlegt að velja á milli afborgana eða beins hungurs. Síðan kemur lögtaksmaðurinn í erindum Boeing Credit Company, lánastofnunar verksmiðjunnar.

Að lokum er húsið selt á uppboði fyrir um það bil þriðja hluta þess, sem fasteignin kostaði í innkaupi. Lóðabraskarar kaupa húsin.

Í desember 1971 voru 4033 fasteignir seldar á skuldauppboði miðað við 240 árið 1968: 1600% hækkun. Yfirvöldin reikna með 11000 uppboðum á mánuði eftir næstu áramót, þegar atvinnuleysissjóðirnir eru þrotnir.

Ef verkamaðurinn er heppinn fær hann að leigja það hús, sem hann hélt sig eiga, þ.e.a.s. ef hann hefur efni á að borga leiguna. Leigustyrkur frá hinu opinbera er 77 dollarar á mánuði til fjölskyldu með tvö eða fleiri börn. Það nægir varla til íbúðarleigu í verstu fátækrahverfunum.

Hvað varðar matinn, þá er hægt að sækja svokallaða Foodstamps einu sinni í viku hjá sósíalhjálpinni. Það eru skömmtunarmiðar, sem hægt er að skipta gegn matvælum í verzlunum. En ekki nægir það til safaríkrar steikur. Baunir og hamborgarar eru aðalfæða þeirra sem atvinnulausir eru og einhæfnin leiðir til næringarskorts. Í fátækrahverfunum má sjá "Biafra"-börn, þ.e.a.s. börn með uppþembda maga og sinnissljó af eggjahvítuskorti.

Sá sem er atvinnulaus verður að biðja forsjónina fyrir sér, að enginn í fjölskyldunni verði veikur, því þá verður neyðarástand. Það er ekki nema mjög lítill minnihluti í USA, sem hefur tekið sjálfviljugur sjúkratryggingu, en hún er mjög dýr.

Langvarandi veikindi þýða í reynd fjárhagslegt gjaldþrot fyrir bandaríska verkamenn, jafnvel við hagstæð fjárhagsleg skilyrði. Að fæða barn á sjúkrahúsi kostar 1000 dollara. Margar fjölskyldur geta alls ekki lagt út í slíkar upphæðir. Þess vegna er barnadauði í USA í svipaðri stöðu og í löndum, sem eru langt á eftir (t.d. Ítalíu). Og tölurnar hækka sífellt.

En sósíalhjálp fær aðeins fyrirvinna fjölskyldu. Sá verkamaður, sem er barnlaus, milli 18 og 50 ára og metinn "vinnuhæfur" fær ekki eyri, hversu ákaft sem hann bendir á það, að ekki er nóg að vera "vinnuhæfur", ef ekki er neins staðar atvinnu að fá. 36% hinna atvinnulausu í Seattle hafa ekki einu sinni rétt til matarmiða. Síðasta útgönguleiðin verður betl og hjálparstarfsemi ýmiss konar "mannúðar"stofnana. Fyrir suma verður ástandið óbærilegt. Sjálfsmorðum hefur fjölgað um 20% frá 1968-1971.

Ekkert annað en aukin hernaðarútgjöld geta bjargað Seattle. Farþegaflugvélamarkaðurinn er fullmettur. Júmbóþoturnar mislukkuðust. Flugfélögin geta ekki fyllt þær af farþegum og velja oft heldur að borga skaðabætur til Boeing en taka út pantaðar flugvélar. Svipað ástand er í öðrum greinum, t.d. bíla- og stáliðnaðinum, þar sem Japan vinnur sífellt á forystu Bandaríkjanna. Kreppan skerpir samkeppnina milli auðvaldsríkjanna og þar stendur USA höllum fæti með laskaðan dollar og óhagstæðan verzlunarjöfnuð.

Bandarísku kapítalistarnir grípa nú til sömu gömlu meðalanna: auka hernaðarútgjöldin.
Í fjárhagsáætlun Nixons fyrir 1973 er áætlað að leggja út 1 milljarð dollara til hergagnapantana hjá Boeing. Það sýnir hvílíka gerviöndun um er að ræða. Sams konar aðferð og eiturlyfjasjúklingurinn, sem eykur skammtinn til að friðþægja sér í bili.

Hin fjárhagslega kreppa er grundvöllur hins sífellt aukna pólitíska hruns. En það sem er grundvöllur kreppunnar er stjórnleysi hinna kapítalísku framleiðsluhátta, þar sem hver kapítalisti út af fyrir sig er á trylltum veiðum til að ná hámarksgróða fyrir sig, án minnsta tillits til afleiðinganna fyrir þjóðfélagið í heild. Kapítalisminn ber sitt eigið hrun í barmi.

# FRELSISBARÁTTA ALÞÝÐUNNAR Í PALESTÍNU
## stutt sögulegt yfirlit

Barátta Palestínanna er ekki barátta gegn gyðingum almennt séð, heldur gegn ríkinu Ísrael, sem heimsvaldasinnar (aðallega Bretland og USA) hafa stutt með öllum hugsanlegum ráðum og "dáðum". Barátta þeirra er einnig barátta gegn þeirri pólitísku ofstækishreyfingu, sem hefur leitt uppbyggingu Ísraels, þ.e. síonismanum.

Síonisminn myndaðist sem stefna gegn antisemitismanum í Austur-Evrópu við aldamótin síðustu. Takmarkið var að koma á fót sjálfstæðu Gyðingaríki. Í upphafi voru ýmsir staðir til umræðu sem landssvæði fyrir Gyðingaríkið væntanlega. Það voru Uganda, Madagaskar og Uruguay, en að lokum urðu síonistarnir ásáttir um að Palestína skyldi verða fyrir valinu.

Síonistarnir hófu síðan landnám í Palestínu með beinni samvinnu við heimsvaldastefnuna. Allar aðferðir voru notaðar við landnámið. Vopnum var beitt og efnt til blóðsúthellinga og það var beitt valdi auðmagnsins til að grafa undan Palestínubúunum. Palestínubúarnir voru síðan gerðir fullkomlega brottrækir úr landi sínu 1948, er síonistar reistu ríki sitt, Ísrael. Það munu ekki margir atburðir sögunnar komast til jafns við landnám síonistanna í Palestínu hvað snertir ógnir, fjöldamorð og hryðjuverk af allra versta tagi. Landatakan var undirbúin af síonískum fasistahópum, sem með skipulögðum fjöldamorðum og hryðjuverkum sköpuðu heljarótta og algjöra örvílnan í heimahögum Palestínanna. Allt síðan árið 1948 hefur alþýða Palestínu lifað við fullkominn þrældóm og vonleysi í ömurlegum flóttamannabúðum í arabísku ríkjunum umhverfis þeirra eigið heimaland og hungursneyð og farsóttir hafa stöðugt verið hlutskipti þeirra.

Sagan hefur sýnt og sannað að það er lögmál, að kúgun fæðir ævinlega af sér mótspyrnu.

1936-1939:
Frelsisstríð palestínsku alþýðunnar á sér langa sögu að baki. Brezka heimsvaldastefnan steig með þursafótum sínum yfir Palestínu, en mótspyrnan af hendi frelsisherjanna var svo sterk, að brezka heimsveldið varð að hafa einn þriðja hluta alls herafla síns í Palestínu til að geta viðhaldið kúgunarfjötrunum.

1948-56:
Þjóðlegar borgaralegar ríkisstjórnir komast til valda í fjölmörgum Arabaríkjum. Barátta þeirra beinist fyrst og fremst gegn síonismanum og heimsvaldastefnunni. Á sama tíma verða móthverfurnar í Arabaríkjunum sjálfum skarpari, þar sem afturhaldið hafði ennþá mikið vald.

1956-67:
Eftir ósigur Arabaríkjanna 1956 fór sjálfstæðri palestínskri frelsishreyfingu að vaxa fiskur um hrygg. Hreyfingin hafði vissar sósíalískar hug-


Flóttamannabúðir Palestínuaraba.

myndir á stefnuskrá sinni. Það var reynt að mynda samfylkingu meðal hinna þjóðlega borgarastjórna Arabaríkjanna, en það mistókst. Ríkisstjórnirnar mynduðu þá PLO (Frelsishreyfing Palestínu) í því skyni að geta haft yfirsýn yfir og stjórnað frelsishreyfingunum.

1967-70:
Eftir enn einn ósigur Arabaríkjanna gegn Ísrael í sexdagastríðinu 1967 vex styrkur frelsishreyfingarinnar gífurlega. Hinn smáborgaralegi hluti hreyfingarinnar undir leiðsögn Al Fatah hefur vissulega töglin og haldirnar, en kommúníski hluti hreyfingarinnar, PFLP, hóf baráttu gegn hægri og vinstri hentistefnunni. Þeir hófu pólitískt grundvallarstarf meðal alþýðunnar. Á sama tíma eykst móthverfan milli frelsishreyfingarinnar og ríkisstjórna Arabaríkjanna, sérstaklega ríkisstjórnar Jórdaníu.

Þróunin eftir 1970:
Al Fatah voru tvímælalaust, bæði pólitískt og hernaðarlega, leiðandi samtökin í frelsishreyfingunni þangað til Hussein Jórdaníukonungur og heimsvaldasinnar gerðu árásirnar á frelsishreyfinguna í september 1970. Eftir það hefur staða Al Fatah orðið mun veikari. Orsakarinnar er ekki að leita í septemberósigrinum, heldur í smáborgaralegri pólitík Al Fatah, sem hefur leitt Al Fatah inn í dilk afturhaldsins. Það er rétt að benda á það í þessu sambandi, að septemberósigurinn var í raun sigur fyrir frelsishreyfinguna, þar sem henni tókst að standast árásirnar og vinna pólitískan sigur.

Það hefur komið greinilega í ljós, að "hlutleysisstefna" Al Fatah gagnvart jórdanska afturhaldinu og einnig gagnvart ríkisstjórnum Arabalandanna hefur ekki verið taktík, heldur takmark í sjálfu sér. Þrátt fyrir að það hafi verið fullkomlega augljóst, að jórdanska íhaldið hafði náin tengsl við heimsvaldastefnuna og síonismann, lagði Al Fatah sig í líma við að gera alls kyns eftirgjafir og tilhliðranir. Þeir yfirgáfu hernaðarstöðvar, sem jórdanski herinn réðist á, létu alþýðuherinn afsala sér vopnum sínum og yfirgáfu alþýðuna í flóttamannabúðunum og verkalýðinn í bæjunum óvarin fyrir hryðjuverkamönnum afturhaldsins. Þeir hafa gengið svo langt í undanslætti sínum, að þeir hafa gengizt undir það, að skæruliðaherinn í Jórdaníu lyti jórdanskri herstjórn.

Samtímis því sem smáborgaraleg stefna Al Fatah hefur sífellt komið skýrar í ljós hefur PFLP vaxið og styrkzt. Pólitískar og hernaðarlegar sellur PFLP eru farnar að starfa af fullum krafti á hertekna landssvæðinu og einnig í Arabaríkjunum í kring, þar sem sellurnar fá bæði kommúníska og hernaðarlega skólun. Og með því að stofna þjóðlegu jórdansk-palestínsku frelsisfylkinguna og bindast samböndum við frelsisfylkingarnar í suðurhluta Litlu Asíu hefur PFLP skapað samvinnugrundvöll milli palestínsku og arabísku byltingarinnar, sem er algjörlega nauðsynlegur vegna þróunar þjóðlegu arabísku ríkisstjórnanna í þá átt að verða verkfæri heimsvaldastefnunnar og sósíalheimsvaldastefnunnar.

......

Hlutverk okkar kommúnista fyrir þjóðlegu palestínsku-arabísku byltinguna er:

- Að styðja byltinguna í heild sinni, að verja allar frelsishreyfingarnar (meðtalið Al Fatah og þær hreyfingar, sem vegna baráttunnar hafa nær þurrkast út) gegn borgaralegum árásum, síonískum árásum og árásum heimsvaldastefnunnar.
- Að leggja starf af mörkum fyrir beinan pólitískan og efnahagslegan stuðning við PFLP og Arabíska flokkinn, ASWP, fyrir sósíalískt starf. Til þess að við getum veitt þennan stuðning verðum við að kynna okkur stéttaskilgreiningu og stefnumál PFLP og ASWP.

Árið 1971 dró PFLP upp eftirfarandi höfuðlínur fyrir nálægasta takmark byltingarstarfsins:

I. Að ljúka byggingu flokksins.
II. Að tengja palestínsku byltinguna arabísku byltingunni. (Þar sem palestínska frelsishreyfingin getur ekki upp á eigin spýtur leyst höfuðmóthverfuna, sem er á milli arabísku alþýðunnar og heimsvaldastefnunnar, verður höfuðhlutverk baráttunnar að vera unnið af arabísku alþýðunni.)
III. Að þróa hernaðaraðgerðir í Ísrael og Jórdaníu.
IV. Að byggja þjóðlega frelsishreyfingu.
V. Að verja frelsishreyfinguna.

Sósíalheimsvaldastefnan hefur haft áhrif á pólitík PFLP.

Til þess að geta veitt PFLP marxískan-lenínískan stuðning verðum við að gagnrýna mistök þeirra. Þar sem hreyfingin á sér smáborgaralegan uppruna er pólitík hennar óþroskuð, hvað snertir nokkur grundvallaratriði varðandi alþjóðahyggju öreiganna. PFLP hefur ekki tekið afstöðu gegn sósíalheimsvaldastefnunni. Þeir styðja t.d. árásir Krússjoffs á félaga Stalín og alræði öreiganna fyrirvaralaust.

Því hefur oft verið haldið fram, að afstaða PFLP til sósíalheimsvaldastefnunnar sé taktísk afstaða vegna efnahagslegrar aðstoðar frá Sovétríkjunum, en svo er ekki. Sovétríkin hafa haft mikil áhrif í Vestur-Asíu. Þeir hafa t.d. viðurkennt Rogersáætlunina, sem byggist á því að þau og USA heimsvaldasinnarnir geti keppt um að hafa áhrif á Arabaríkin og er það því samkomulag, sem er gert án þess að Palestínarnir sjálfir getir haft nokkur einustu áhrif á gang málanna. PFLP hefur varið þessa samningagerð undir því yfirskyni, að um sé að ræða "tillit til alheimsins", á sama hátt verja þeir einnig heimsvaldabrölt Sovétríkjanna og Indlands í Bangla-Desh og árás Rússa á Tékkóslóvakíu árið 1968.

Við flokksbygginguna viðhafa þeir einnig rangar aðferðir hvað snertir grundvallaratriði í uppbyggingu marxísks-lenínísks flokks. Ein alvarlegasta villan, sem þeir gera, er að þeir hafa tileinkað sér hinar alröngu hugmyndir Che Guevara um afstöðuna milli hernaðarlegu og pólitísku baráttunnar. Þeir halda því fram " að flokkurinn verði byggður með hernaðarlegu baráttunni", þ.e.a.s. þeir láta hernaðarlegu baráttuna ákvarða hvernig beri að heyja pólitísku baráttuna, en ekki gagnstætt, sem er grundvallarregla fyrir marxíska-leníníska flokksbyggingu.

Af þessum orsökum halda þeir því einnig fram, að pólitísk hryðjuverk séu mjög heppileg til að hvetja verkalýðsstéttina í iðnvæddu löndunum, en það er afstaða, sem á engan hátt er samrýmanleg marxismanum-lenínismanum.

PFLP er ennþá mjög háð smáborgaralegum uppruna sínum. Í fyrstunni átti hreyfingin fyrst og fremst aðsetur í háskólunum og bera leiðtogar PFLP þess glögg merki í dag, sem einnig varpar ljósi á t.d. afstöðu þeirra til hryðjuverka.

Við styðjum PFLP vegna þess að þeir berjast gegn síonismanum og heimsvaldastefnunni og eru engin smáborgaraleg hreyfing að því leyti, að þeir vilja taka þátt í baráttunni sjálfri. Þeir eru þar að auki fremstu fulltrúar hinnar byltingarsinnuðu baráttu í Palestínu. En um leið og við veitum palestínsku og arabísku byltingunni fullan stuðning okkar þýðir það að sjálfsögðu, að okkur ber skylda til að gagnrýna þau mistök, sem frelsishreyfingin gerir. Þess vegna bendum við á mikilvægi þess að palestínska hreyfingin sjái í gegnum sósíalheimsvaldastefnuna, sem er algjört skilyrði fyrir því að palestínska og arabíska byltingin geti orðið að veruleika.

FRAM TIL BARÁTTU GEGN HEIMSVALDASTEFNUNNI OG KEPPINAUT HENNAR - SÓSÍALHEIMSVALDASTEFNUNNI!

# Stórsigrar þjóðfrelsishersins
## framhald af forsíðu...



SÓKN OG SIGRAR ÞJÓÐFRELSISHREYFINGARINNAR SÍÐUSTU 5 MÁNUÐI.

Síðustu 5 mánuði hefur her Þjóðfrelsisfylkingar Suður-Víet Nam - FNL - hert sóknina á öllum vígstöðvum og unnið hvern stórsigurinn á fætur öðrum. En þrátt fyrir að landher bandarísku heimsvaldasinnanna hafi beðið hvern ósigurinn á fætur öðrum, halda þessir ógeðslegu fjöldamorðingjar áfram þjóðarmorðinu í Víet Nam.

Síðan 1962 hafa Bandaríkjamenn dreift yfir landið gífurlegu magni af gróðureyðingarefninu 2,4,5-T og 2,4-D og þannig lagt í eyði yfir 15000 ferkílómetra lands og beinlínis sýkt yfir eina milljón Suður-Víetnama, sem margir hverjir hafa látið lífið af völdum þessarar eitrunar, aðallega konur og börn.

Og nú síðast með eyðileggingu stíflugarða í Norður-Víet Nam er milljónum manna stofnað í bráðan lífsháska.

UPP Á LÍF OG DAUÐA.

Í Víet Nam eru bandarísku heimsvaldasinnarnir nú að framkvæma viðbjóðslegasta þjóðarmorð sögunnar, fjarstýrðu frá flugvöllum þeirra í náliggjandi leppríkjum og flugmóðurskipum á hafi úti. Þessi hrottalega aðferð rotnandi heimsveldis með hjálp fámennrar klíku viðurstyggilegra alþýðusvikara í Saigon hefur ekki deyft baráttuþrek víetnömsku þjóðarinnar, þvert á móti. Aldrei áður hefur hún barizt af þvílíkum eldmóði. Sífellt fleiri verkamenn, bændur og menntamenn skipa sér við hlið hers FNL til að losna undan kúgun bandarísku heimsvaldasinnanna og sífellt stærri landssvæði eru frelsuð.

Víetnamar munu berjast þar til fullnaðarsigur er unninn. Vegna þess að barátta þeirra er framsýn og háð undir leiðsögn kommúnista munu þeir sigra.

STÓRSIGRAR Í APRÍL.

3.4. réðust herir FNL endanlega í gegnum varnarlínurnar við veg 9 (Quang Tri). Norðvestur af Saigon vann FNL sigur á 6 stórskotaliðsfylkjum á veg 22 og 13 (Tay Ning-Binh long) á aðeins 6 tímum.
Á sléttunum í mið-Víet Nam og Mekongósholasvæðinu vann FNL mikla sigra og stráfelldi óvininn.

MAÍ OG JÚNÍ, RÁÐ STOFNUÐ Í HÉRUÐUNUM.

Í mörgum héruðum, sem hermenn Saigonstjórnar höfðu á valdi sínu voru varnarherirnir þurrkaðir út. Á þessum svæðum studdi FNL fólkið við að koma upp sjálfstjórn. Miklir sigrar unnust einnig við Mekongfljót og meðfram vegi 14, 19, 15 (Ba Ria- Long Khanh) og V3 (An Loc). Á öllum þessum stöðum misstu herir Bandaríkjamanna og Saigonstjórnarinnar ógrynni af mönnum og tækjum.

JÚLÍ, ÞYRLUHERSVEIT ÞURRKUÐ ÚT.

Í júlí sýndu hermenn FNL og íbúar Hue og Quang Tri héraðanna mikla mótspyrnu þrátt fyrir harðar loftárásir bandarískra flugvéla, unnu stórsigra og hófu mikla sókn meðfram vegi 12. 11. júlí voru skotnar niður 29 af 31 þyrlu, sem voru í árásarferð yfir Quang-Tri.

ÁGÚST, SAIGONHERMENN GANGA Í LIÐ MEÐ ÞJÓÐFRELSISFYLKINGUNNI.

Alþýðan á sléttunum við Trung Bo vestur af Nam Bo brauzt undan oki Bandaríkjamanna. 18. ágúst voru 30 flugvélar eyðilagðar við Da Nang. 23.-24. ágúst voru harðir bardagar háðir í Tri Bun, Thach Han, Long Hun, Tan Teo og mikill fjöldi óvina felldur. Sem fyrr gekk stöðugur straumur hermanna Saigonstjórnarinnar í lið með FNL.

AUKINN SKÆRUHERNAÐUR Í LAOS OG KAMBÓDÍU.

Þjóðfrelsisherir í Laos og Kambódíu hafa einnig tekið virkan þátt í baráttunni. Með stuðningi íbúanna hafa þeir unnið mikla sigra í N.- Laos, í Khong sedon (S.-Laos), meðfram vegi 7 (NA-Kambódíu), Kampot-Ta Keo (SV-Kambódíu) og kringum Phnom Penh. Þeir hafa ásamt víetnömsku þjóðinni komið bandarísku heimsvaldasinnunum og bandhundum þeirra í gjörtapaða stöðu á öllum þrem víglínunum í Indókína.

SKÝRSLA UM SIGRA VÍETNÖMSKU ÞJÓÐARINNAR Á BANDARÍSKU HEIMSVALDASINNUNUM OG LEPPUM ÞEIRRA Í SAIGON SÍÐUSTU 5 MÁNUÐI.

Suður Víet Nam:

- 280 þúsund óvinir drepnir, særðir eða teknir höndum.
- 7 herdeildir þurrkaðar út eða gerðar óbardagahæfar, einnig 33 stórfylki og hersveitir, 205 fótgönguliðaherfylki, 11 léttvopnaðar hersveitir og 22 stórskotaliðsherfylki.
- 60 herfylki, 450 fótgönguliðssveitir og 1500 fótgönguliðssveitir heimavarnarliða og landvarnaliða gereyddar eða gerðar óvirkar.

HERGÖGN EYÐILÖGÐ EÐA TEKIN HERFANGI.

- 5800 herflutningatæki eyðilögð eða tekin herfangi, þ.á.m. 2000 skriðdrekar og brynbílar.
- 1300 fallbyssur, 40.000 handvopn af ýmsum gerðum og þúsundir tonna af sprengjum.
- 1850 flugvélar skotnar niður eða eyðilagðar á jörðu niðri.
- 330 landgönguprömmum og fallbyssubátum sökkt.
- 600 vöruhús með olíu, vopnum og öðrum hergögnum brennd til kaldra kola.
- 58 herstöðvar teknar eða eyðilagðar ásamt 1 flotastöð, 8 flugvöllum og 24 hersetnum þorpum.
- 1800 varðstöðvar eyðilagðar.

------

- 2,5 milljónir alþýðufólks hafa risið upp og tekið stjórn stórs óræktaðs lands af bandarísku heimsvaldasinnunum og leppum þeirra.

FRELSISHERINN GJÖREYDDI MÖRGUM AF ÖFLUGUSTU VARNARLÍNUM ÓVINARINS Á ÖLLUM VÍGSTÖÐVUM.

- Brotin stór skörð í varnarlínur óvinarins norðan og sunnan vegar 9.
- Eyðilagðar öflugar varnarstöðvar frá Dong Ha svæðinu til norðurhluta My Chanh.
- Eyðilögð keðja lítilla herstöðva á hæðunum vestur að Poco fljóti og norðaustur af Kontum, og varnarlínur í Dac To - Tan Canh héraðinu.
- Eyðilagðar öflugar varnarstöðvar í Binh Long-Tay Ninh og yfirráðum náð yfir hundruðum kílómetra af veg 13 og 22 N. og NV af Saigon.

NORÐUR VÍET NAM.

- 422 bandarískar flugvélar skotnar niður á tímabilinu 6/4 - 1/9 1972.
- Bandarísk herskip orðið 71 sinni fyrir íkveikjuárásum.

MIKILVÆGI STRÍÐSINS Í INDÓKÍNA FYRIR ÞJÓÐFRELSISBARÁTTUNA Í DAG.

Sú barátta, sem alþýða Víet Nam á í við bandarísku heimsvaldasinnana í dag er öllum byltingarsinnum fordæmi. Sú staðreynd að risavaxnasta herveldi jarðar hefur orðið að láta undan síga fyrir tiltölulega fámennri Asíuþjóð og sér nú fram á ósigur sinn er öðru fremur viðurkenning á orðum Maós Tsetungs: "Heimsvaldastefnan og allir afturhaldsmenn eru pappírstígrar." Þær hrakfarir, sem bandaríska herveldið hefur orðið fyrir í Víet Nam og öllu Indókína, er hvatning öllum kúguðum um að herða baráttuna, hvar sem stéttabaráttan geisar; hvort sem það er í Afríku, Rómönsku Ameríku eða annars staðar. - Ho Chi Minh, leiðtogi Víetnama, sagði eitt sinn: "Bezti stuðningur við frelsisbaráttu Víetnama er að gera byltingu í eigin landi." Til þess að hin sósíalíska bylting geti orðið að veruleika verða öreigarnir að eiga sér kommúnistaflokk, sem leitt geti baráttuna. Þess vegna hvetjum við alla stéttvísa öreiga til að sýna alþjóðahyggjuna í verki og hefja byltingarsinnað starf með KSML - látið skrá ykkur í stuðningshópa - hafið samband við sölufólk STÉTTABARÁTTUNNAR.

MEÐ BARÁTTU OKKAR HÉR - STÉTT GEGN STÉTT - STYÐJUM VIÐ ALÞÝÐU VÍET NAM!

LIFI ALÞJÓÐAHYGGJA ÖREIGANNA!